# NJÓLA

eða

# hugmynd um alheimsáformið,

af

## skoðun guðs verka og kristindómi,

tilraun til alheimsáforms - fræði

*(teleologia mundi)*,

eptir

**B. Gunnlaugsson,**

yfirkennara og riddara dannebrogsorðunnar.

2. útgáfa, aukin og endurbætt.

---

Reykjavík.

Prentuð á kostnað J. Árnasonar, hjá E. Þórðarsyni.

1853.

Eins og sól, um aðaldjúp
uppheims-bóla flogin,
tendraði Njóla í helgum hjúp
himin-sjóla login.

Dr. *S. Egilsson.*

# Formáli.

Af því að Njóla, sem fyrst var prentuð árið 1842, hefur verið ófáanleg í nokkur ár, hvað sem í boði hefði verið, og af því að miklu eru þeir fleiri, sem eptir kvæði þessu hafa spurt og þykir mikið til þess koma, eins og má, en hinir, sem hafa andmælt því, — fjekk jeg leyfi hjá höfundi kvæðisins, herra B. Gunnlaugssyni, yfirkennara og riddara dannebrogsorðunnar, til að láta prenta það að nýju.

Þessi útgáfa af Njólu er endurbætt, að því leyti sem höfundurinn hefur bætt við hana **„stefnu hugleiðinganna“** (á 1.—4. bls.) og aukið hana með mörgum nýjum skýringum (yfir 30), auk tilvísana í ritninguna, trúarreglubækurnar og rit ýmsra merkismanna. Sumar skýringarnar, sem voru í eldri útgáfunni, hefur hann og lengt til muna, og breytt þeim, þar sem honum þótti þurfa. Með skýringum þessum, sem höfundurinn hefur bætt við eða breytt, hefur hann jafnframt haft tillit til mótmæla þeirra, sem Njóla mætti hjá sumum, þegar hún var prentuð í fyrra sinni; en ekki gengur hann þó í berhögg við mótmælendur sína með frekju og atyrðum, eins og stundum ber við í slíkum kappmálum, því að slík aðferð er höfundinum ótöm, eins og allir vita, sem hann þekkja, — heldur lítur svo út, sem hann sje alla jafna að skýra efnið og færa sönnur á mál sitt; en um leið hrekur hann aðfinningar þær, sem komið hafa fram gegn Njólu.

Í kvæðinu sjálfu hefur höfundurinn breytt hendingum eða orðatiltækjum í 6 erindum (í 104., 234., 277., 326., 351. og 360.) og 2 erindum gjörsamlega (128. og 284.); svo að einnig að því leyti má þetta heita „endurbætt útgáfa“.

Skýringarnar í fyrri útgáfunni voru ýmist settar neðanmáls eða á eptir þeim kafla kvæðisins, sem þær hlýddu upp á, og tilvísanirnar í ritninguna voru ýmist á spázíunni eða neðanmáls. Í þessari útgáfu eru bæði skýringarnar og tilvísanirnar settar fyrir aptan kvæðið, og vísað til með smátölum, við hvert orð í kvæðinu hver skýring eigi. Þær hinar sömu smátölur eru aptur settar fyrir framan hverja skýringu, og erindistalan í sviga fyrir aptan, sem skýringin á við. Ef fleiri

skýringar en ein eiga við eitt og sama erindi, er ekki erindistalan tekin upp aptur, en þá er sett í sviga sst. (þ. e. sama staðar); einkum er þessi tilhögun höfð, ef fleiri tilvísanir í ritninguna, en ein, fylgja sama erindi, t. a. m. í 100. er. Þar sem smátölur standa við fyrirsagnirnar í kvæðinu, er blaðsíðutalan sett í sviga fyrir aptan þær í skýringunum. Þetta er gjört til þess, að glöggar sjáist, hvar hver skýring eða tilvísun eigi við, með því líka að smátölurnar hækka ekki meir en til [100], og er þá byrjað á [1] aptur, ella mundi það valda ruglingi, ef erindistalan eða blaðsíðutalan væri ekki tilgreind við smátölurnar. Jeg vona, að þessi tilhögun með skýringarnar (að þeim er skotið öllum aptur fyrir kvæðið sjálft) verði ekki til þess, að menn lesi þær ekki, eða vilji ekki hafa fyrir að leita að þeim, þó þær standi ekki neðan undir kvæðinu, eða innan um það í köflum, eins og áður; því að með þeirri tilhögun slitnar heldur þráðurinn í kvæðinu sundur, ef skýringarnar eru langar.

Um prentvillur þær, sem hittast í Njólu, má kenna mjer en ekki höfundinum.

Reykjavík, 31. dag maímánaðar 1853.

*J. Árnason.*

---

# Stefna
## hugleiðínganna í Njólu.

### I. Himininn skoðaður á nóttu. 1.-57. erindi.



### II. Alheimsáformið uppleitast, og finnst að vera lífið og ódauðlegleikinn. 58.-82 erindi.

## IV. Ný staðfestíng hins fundna alheimsáforms, eða tilgángur og myndun alls líkamlegs efnis fyrir mótspyrnu, samloðun og þýngd. 399.-436. er.

## V. Hátignin í alheimsáforminu. 437.–518. er.

# I. Himininn skoðaður á nóttu.

## 1. Inngángur.

1. Meistari himna mikli þú,
mig þinn andi hneigi,
svo hugurinn nokkuð hugsa nú
um hátign þína megi.

2. Nú er fögur nætur stund,
nú ber skrautið frána[1]
þakið bláa', er þandi mund
þín yfir höllu mána.

3. Lít eg sveima hæða hyl
herinn alskínandi;
því vill hefjast himna til
hugurinn lofsýngjandi.

4. Himinkóra háa saung
hann vill taka undir;
en þess lítil eru faung,
aptra bernsku stundir.

5. Meðan þessi æfin er,
eins og börn vèr hjölum;
æðra mál því ætlar mjer
upp' í dýrðar sölum.

6. Hvílík tign er þessi þá,
þig sem föður eiga;
hvílík von þig síðar sjá
með sælli gleði mega.

7. Þig að sjá um eilíf ár,
æ, þá von! sem hrekur
grimma sorg, en gleði tár
geislum hvarma vekur.

8. Ó þú gríma, Njóla[2], nótt!
nótt um lopt alstirnda,
skuggsjá þú, sem skipar drótt
skaparans dýrð ímynda,

9. Þitt gler málar þjóðum heims
(þó mest fjarskinn dylji)
mátt og vizku', er geisla geims
glóa um regin hylji.

10. Guð, oss veit þá gleði lind
góða nú að finna,
er þín á himni[3] máluð mynd
má dauðlegum vinna.

## 2. Vort sólkerfi.

11. Hugurinn skoðar hnetti þá,
er heita vort sólkerfi,
sem uppljóma sólin má,
svo hel-myrkur hverfi.

12. Þannig ljær hún ljós og yl,
líf og gróður sendir
hnatta sinna hliðar til,
henni mót sem vendir.

13. En sú hliðin, er frá snýr,
öll sig skugga hylur.
Með þeim hætti drottinn dýr
dag og nótt að skilur.

14. Svo ei þessa herpíngs hel,
nè hina sólin brenni,
hnöttum bauð hinu vitri vel:
„veltizt fyrir henni".

15. Vetur, sumar, ár og öld
aðgreint verða skyldi,
himin kannist, tíð sè töld,
tignar faðirinn vildi.

16. Alt skal fjör og yndi ljá,
alt skal breytíng gera;
hann því skipar hnöttum á
harða-kasti vera.

17. Svo að kast, er setja vann,
sólkerfinu' ei grandi,
þá nam fjötra þetta hann
þýngðar segul-bandi.

18. Að kerfið heilt þó haldi sèr
helzt við selju ljósa[4],
megin-afl í mærum her
mátti hún sèr kjósa.

19. Þar eð aflið þýngðar mest
þegið hefir sunna,
þýngst í vöfum sjálf hún sèst
sig minst hræra kunna.

20. Hnettir lèttir hlaupa þá
henni fram hjá gjarna,
rètt[5] að detti' ei röðli frá
á róla þýngðar varna.

21. Þegar kast og þýngð er á
þannig öllu megin,
leiðin, sem að lagast þá,
er lína bogadregin[6].

22. Leggur kríngum sólu sú
sig í hrínga' aflánga;
bauð svo guð, og bezta nú
birtu hnettir fánga.

23. Svo ei ræki ein sig á
aðra plánetuna,
hann misvíða hafði þá
hrínga, sem þær bruna.

24. Þeirra hrínga víðd eg vil
virðar betur skilji;
skotna kúlu tek því til,
er tímann ferðar þylji.

25. Hún skal sólu fljúga frá,
ferð með óstöðvandi[7],
að níu árum nærfelt þá
næði í Merkúr landi.

26. Árin seytján fram þá fer,
fögru Venus slær hún;
tuttug' og fimm ef tekur sèr,
til vor líka nær hún.

27. Fjörutíu full ár vel
ferð til Mars hún reyndi;
alt eins leingi og Ísrael
eyðimörk sèr treindi.

28. Að finna Vestu ferðin stár
fimtíu' og níu vetur;
í Júnó sextíu' og sjö hún ár
sól frá komizt getur.

29. Pallas til og Ceres sú
á sjötíu árum kemur;
leingur fáir lifa nú,
lángtum fleiri skemur.

30. Júpíters til herðir heit
í hundrað tuttugu' og níu;
fram í Satúrns flýgur reit
fern um ár sextíu.

31. Og plánetu Úran til,
yztu sem menn kenna,
um fimm hundruð ára bil
ætti kúlan renna.

32. Halastjörnur þreyta þó
þar út frá í hríngum,
lokkaprúðar sunnu sjó
synda röðul kríngum.

33. Híngað til það horfð' eg á,
heitir vort sólkerfi,
ljóss hjá geimi lítast má
líkt og púnktur hverfi.

## 3. Ótal sólkerfi.

34. Út í himna glæstan geim
eg girnist leingra að kanna,
birta ljósin björt í þeim
byggðir upphæðanna.

35. Sjást ei nema sólirnar,
sínum fela ljóma
hnetti dimma', er hlaupa þar
í hömlum segul-dróma.

36. Stjarna hver, sem leiptra lá
ljómar upp, er sunna;
þó ei reiknast þessum hjá
þær fyr nefndu kunna.

37. Sunnukerfi semur eitt
sól hver með plánetum;
sèrhvert þeirra svo er breitt,
sízt að fullmælt getum.

38. Byssukúlu kast ei ná
kyrðarstjörnu mundi
Siríus, næstu sólu, blá
í sjö hundruð ár-þúsundir.

39. Flokkum saman finnum vèr
fjölda' af kyrðarstjörnum;
sólkerfanna afgrunn er
Adams sýnt þar börnum.

## 4. Hríngdansinn himneski.

40. Á fram túnglin öll í hríng
plánetur gánga,
svo þær aptur sól í kríng
sendast vegi lánga.

41. Aptur kríngum sólna sól
sólir í baugum renna;
sólna sólir hærra hjól
himinrásum spenna.

42. Hríngleiks gánginn gjörvallan
gizkar einginn lýða,
á Stilbóns[8] vángi' er stíga kann
stjarna meingið fríða.

## 5. Vetrarbrautin[9].

43. Vetrarbraut er saman sett
af sólkerfa millíónum;
fjarlægð af þær falla þètt
fyrir vorum sjónum.

44. Hún að birtist hríngs í mynd,
hugboð það vill styðja,
að hennar byggjum himingrind
hèrna því nær miðja.

45. Að mælum þeirrar mikla hjól
mun eilífðar bíða;
í hennar baug er sèrhver sól,
er sjáum himin prýða.

46. Mælt er sólna sólirnar
segultaums á eyki
ótal kríngum eina þar
aðalsunnu leiki.

## 6. Ótal vetrarbrautir.

47. Ó! hvað guðs er veldi vítt,
vítt svo neinn ei kannar;
eilíft kemur afgrunn nýtt,
afgrunn fyrra' er spannar.

48. Enn nú margan bleikan blett
á bláum himni lítum,
„stjörnuþokur" þessir rètt
því hjá kallast ítum.

49. Sumar þó að sjónargler
svo nær augum dragi,
að lítum sólna grúa-ger
geisla' á dýrðar ægi.

50. Mökkva suma má ei þó
með sjónpípu greiða;
óbreyttan í sunnu-sjó
sjáum glampann breiða.

51. Eins og þegar þoka fjöll
þekur feldi gráum,
verður dimm þá veðra höll,
þó vèr ei dropa sjáum.

52. Sem jarðþokan silfurgrá
sudda dropum læðir,
svo er krök af sólum þá
sú, er himin glæðir.

53. Verður svo, þá vídd er næg
frá virða sjónar hvarmi,
úr óteljandi sólna sæg
sameinaður bjarmi.

54. Vetrarbraut ef væri fjær,
víst útlíta mundi
eins og stjörnuþokur þær
þróins fjörni[10] undir.

55. Hver ein stjörnuþoka þá,
þeirri' af líkíng hyggjum,
vetrarbraut sè við og há
vorri lík, er byggjum.

56. Augum berum eygt menn fá
um allar röðulgrundir
að eins tvær[11], en samt má sjá
um sjónargler þúsundir.

57. Sem þá mest er síldum af
í söltum þorska lautum,
alt eins morar uppheims haf
ótal vetrarbrautum.

# II. Alheimsáformið uppleitast, og finnst að vera lífið og ódauðlegleikinn[12].

## 1. Hvað æðst sýnist í heimi.

58. Þessi bygging himins há,
er hèr til nam eg skoða,
fyrirætlan mikla má
meistarans æðsta boða.

59. Lífið öllu lángt af ber,
lífi duptið þjónar,
lífi birtan löguð er,
líf sèr haminn prjónar.

## 2. Lífsins sýnilega staðfesta, þó umbúðir umskiptist.

60. Lát ei kynlegt lítast þèr,
þó lífið hverfa megi;
opt mun ske, það utan af sèr
umbúðunum fleygi.

61. Fyrsta sinn í fæðíngu
fleygir hýði þúnga;
gamalla úr gæðíngu
gánga sjáum únga[13].

62. Fær sèr prjónað fötin ný
á fyltum ára tugi,
fornu slitin fellir því,
er fjúka lopts um bugi.

## 3. Lífið er inn á við lýsandi guðs ljós.

63. Lífið þetta, lít þú á,
er lýsandi guðs kraptur;
og þess logann ala má
allur heimur skaptur.

64. Það má nefna ljósa ljós,
því ljósin einginn sæi,
er ekki sínu á þau jós
æðra ljósa tægi.

65. Lýsir fyrir sjálfum sèr
sami kraptur einum,
í aðra heima birtu ber,
þó býti henni' ei neinum.

66. Hann er aleinn[14] hugsun í
herra, og sinn ljósberi;
öðrum dimmur þjónar því,
þó að styrkinn geri.

67. Ímyndar sèr alrúmið
uppi, kríng og niðri;
ærið háleitt á hann svið
eilífðinni' í miðri.

## 4. Lífið nær til hins ósýnilega og eilífa.

68. Ímyndar sèr æðstan guð.
og ætlan fullkomnunar;
eingin veran upphækkuð
æðri' í raun frambrunar.

69. Eingin veran aðgáng fær
æðstan guð að líta,
utan lífs hvar logi skær
ljósi kann að býta.

## 5. Lífið drottnar yfir því líflausa.

70. Ætlar líf sig eiga rètt
yfir dauðum hlutum.
Drottinn hefir svo tilsett,
síðan alveg nutum.

71. En hið dauða ekki fær
annars hlutar njóta;
aðalgagnið ætlum vær
alt að lífi fljóta.

72. Þenna krapt menn kalla *jeg*
í kendum fræða greinum;
er sú veran undarleg,
æðsta af skepnu meinum.

## 6. Einstaklíngslífið má aldrei slokna.

73. Aðaltilgángs einkennin
eflaust lífið hefur,
er nú feingum upptalin;
það ærna vissu gefur.

74. Ei mun guð sitt *aðalverk*
aptur niður rífa,
*lífið*; sú hans stundan sterk
stendur tíð eilífa.

75. Til hvers fjarska fjöldinn skal
fæðast, nokkuð glaðna,
og ætíð þó um aldatal
eins og bólur hjaðna?

76. Guð.vorn anda' *ef áframhald*
*ei fá seinna lætur,*
*röðulbanda reist er tjald*[15]
*rètt til einnar nætur.*

77. Eflaust væri ónýtt brjál
öll sú sköpun heima,
þó lífs alt bergi skjótt á skál,
ef skyldi öllu gleyma.

78. Ónýtt verk er útrunninn
æfi spotti naumur;
sem afmáð skriptin ólesin,
eða gleymdur draumur.

79. Eða mun guð ærnum geim
svo ítra sköpun veita,
ef ætlaði meira ekki' í þeim
en upp lífsbólum þeyta?

80 Ef lífið ekki' að algjörleik
æðsti leiðir fíngur,
hnígur dýrðleg vizkan veik
í vitskerðínga glíngur.

81. Einnig það, að mesta mergð
má í æsku deya,
að alblómgaða enn ei sèrð
ætlan guðs, mun segja.

82. Þó fái hrun við fjörva blund
fólginn muna kraptur
(sem kurl þá funa fela' um stund),
fram hann brunar aptur.

# III. Prófun hins fundna alheimsáforms, eða lífsglæðíngin á vorum hnetti[16].

## 1. Inngángur: alt stefnir að einu, eða í eina átt.

83. Ó! að fagran fyndum þráð,
og feingjum hann útskýra,
eptir hverjum eilíft ráð
oss mun kunnugu' stýra.

84. Þó margbreytt bæði' og mjög sè hátt,
hvað mannleg þekkíng geymir,
samt má finna, að ein er átt,
elfan til sem streymir.

## 2. Allt stefnir að lífinu.

85. Guð að lífið meti mest,
má af öllu sanna,
vitnar hvað í veröld sèst,
vitna ljós himnanna.

86. En hvað líf er, einginn veit,
utan sá það reynir;
tröppustig þess telur sveit,
til sem eilífð greinir.

87. Æðstu megum undra þá
alúð, sem guð brúkar,
lista-röð ef lítum á,
lífi manns er hjúkrar.

## 3. Sex fyrstu lífsglæðíngar-meðölin eptir tíðarröð.

Ástirnar.

88. Svo þar ný að lifni líf,
lagleg ást má þjóna;
kallar saman karl og víf
kærleikurinn hjóna.

Móðurlífs umbúníngur.

89. Vort er lífið veikt um stund,
vörn umbúðar krefur;
af list það reifar líknarmund,
lagt hvar fóstrið sefur.

Fæðíngin og foreldraelskan.

90. Vorðið manna meðfæri,
af móðurlífi er hrundið;
faðm því breiða fagnandi
faðirinn og sprundið.

91. Ó guð! hvernig megnar mold
þá megin-rækt að vinna?
Gegnum mannlegt heyri' eg hold
hljóminn elsku þinnar.

92. Dreingir lofa dáð þá nú,
sem drýgja þjóðir velskar [17].
En getur smíðað, gumi, þú
gángverk það, sem elskar?

93. Ó, hvað, guð! þín elskan má
ómetanleg skarta [18].
Þèr eru smíðin fögru frá,
föður- og móður-hjarta.

Ómagahálsinn.

94. Foreldranna í fyrstu er
fædda jóð handbendi,
þeirra að mentun safni sèr,
og sál til dygða vendi.

Þroskunin.

95. Drjúgum líf nú dafna má,
dugurinn hug upp tendrar,
færir það úr fati þá
foreldranna verndar.

## 4. Einstaklíngurinn kominn til vits og ráða.

Nokkrar guðlegar hvatir
(einkum hjá kristnum).

96. Sjálft það annast sitt nú gagn;
sömu spurn má þylja:
hvaðan fær það moldin magn,
svo mjög sig annast vilja?

97. Ei þá sjálfir eigum hnoss,
elskuna, sem um ræðum;
heldur er það, sem elskar oss,
sá alvaldi á hæðum.

98. Fullkomnunar fýsn með virkt
frægð oss bauð umgreipa;
fær til þessa hvatt og hirt
heiður bæði' og sneypa.

99. Samvizkan oss ljósið ljær,
lífs til öld svo renni;
eins og faðir ámint fær
andinn guðs í henni.

100. Hann er ljósið hèr á storð,
helgun vora greiðir[19],
hann oss kennir heilagt orð[20],
hugsan bænar leiðir[21].

101. Hann oss opnað himin fær,
í hjartað yl útbreiðir[22],
hans en blíða huggun skær
hörmúngunum eyðir[23].

102. Laun og hegníng lýðum hjá
lífið einnig glæða;
vizka í breytni vaknar þá,
verður að ljósi gæða.

103. Vizka í breytni' er virðum líf[24],
víðfleyg sjónin hugar
móti grandi, hjálp og hlíf,
sem holdinu auga dugar.

104. Mentun standa má því röm,
manna framför gegna,
eilíf guðs er elskan söm[25],
í því að launa' og hegna.

105. Af elsku[26] sköp oss herrann hár,
þó horfð' á synd ógjörðu;
um eilífð söm því elskan stár,
eins við refsíng hörðu[27].

106. Ritníng helg þó ræðir sann
um reiði guðs, sem bæri,
rètt því syndum refsar hann
reiður líkt og væri.

107. Hvert af reiði[28] refsar hann
rèttri eða speki,
upp á sama koma kann,
kennir á líkt hinn seki.

108. Samt er huggun hèr í ein,
helgust manna sonum:
að ógætninnar ekkert mein
óttast þarf af honum.

109. Elskan stýlar einsaman
alla hegnínguna;
of mjög hlífa ekki kann,
og aldrei kemst í funa.

110. Æ! sú stendur elskan bygð
á alvizkunnar fjöllum;
henni eingin haggar styggð,
hún því sá, nær föllum.

111. Hún að sköpun hætti' ei þó,
herma kann oss þetta:
að ekkert syndin áfall bjó
áforminu setta.

112. Alvizkan fyrst umbreytíng
aungva getur feingið[29],
eilífðar fær allan hríng
elsku sólin geingið.

113. Rèttlætis[30] því reglan skær
röð þèr sýnir lánga;
í þeim stiga þú óhult fær
upp og niður að gánga.

114. Brot með ángri ef brjóstið slá,
og betrar trúin hjarta[31],
í endurlausn guð opnar þá
elsku faðminn bjarta.

115. Guð oss elskar eilífð frá,
eins þegar synd oss kvelur[32];
sjálfur fórn oss sendir þá[33],
soninn einka velur[34].

116. Fórnin sýnir sáttarhót[35],
samvizkuna græðir[36],
síðan föður- sáttum mót[37]
sonar elsku glæðir.

117. Elskan lèttir lögmálsboð[38],
leggur synd á flótta[39],
greiða bænir guðs aðstoð[40],
gjörast þær án ótta[41].

118. Hefir svo kent og kvöl sig pínt
Kristur af ást tildreginn[42],
þannig lagt og sjálfur sýnt
sáluhjálpar veginn[43].

119. Ofan synda ókjör mín
á illviðranna svæðum[44]
elsku sólin eilíf skín
upp í dýrðar hæðum.

120. En eg kunni ekki sjá
elsku sól þá björtu,
misgjörð því að milli lá[45],
myrkri byrgði svörtu.

121. En þín frelsun, ó Jesú!
öllum djörfúng býður,
skýin sundur skilur þú,
að skíni röðull blíður.

122. Af þínum styrk eg megna margt[46],
má og heiminn vinna[47];
alt er fært, og alt er bjart
af yndi', er guðs börn finna[48].

123. Himin brosir hátignar,
hauður gleði rómar,
eingin túngan útmálar
elsku guðs, þá ljómar.

124. Hefði Jesús hèr ei kent,
að heiminum guð svo vægði,
örvæntíngin upp þá spent
allri tilraun bægði.

125. Misþekt höfðu menn þar að
mjög svo guðs rèttlæti,
að hefndargyðju hèldu það,
er hörðum klett' á sæti.

126. Yfir megn að heimti' ei hann[49],
hermir náð sú lènta;
líkt og vitur vægir mann
viðvaníngi menta.

127. Á mentun æðsta miðar þá
miskun og rèttlæti;
svo heilagleikans hæðum á
hljótum tignar sæti.

128. Hvert mun ávarp hæfa þèr,
heim þar frelsi veitir[50]?
Kalla þig föður kent oss er,[51]
því kærleiksfyllst er heitið.

129. Einginn syndga maður má
miskunar þeirrar vegna;
„veit eilífa vizkan há
að vægja bæði' og hegna".

130. Heilög rödd sú hörð og blíð
af herrans krossi dunar;
hótar sú þeim lasta lýð',
leið sem girnda brunar[52].

131. Ef fórnin þarf svo fjarska dýr,
og feyknar kvölum sæta,
syndin ógnar sekt oss býr;
sannlega ber þess gæta.

132. Óttast guð því mátt, ó mann!
mundu, að vel athugir,
að ekki gjörir hálfverk hann,
hegnir hann, svo að dugir.

133. Endurlausn er lausn frá synd[53],
lausn er hún sízt frá aga[54].
Hugsi aldrei heimskan blind,
að hlífi oss guð til baga.

134. Og því síður hlífist hann
hegníng við að gjalda,
sem ástin hans mun einsaman
á agavendi halda[55].

135. Geti' ei vakið guðdómlig
gæzka', er tárin feldi[56],
vita skalt, hún vekur þig
í vítis heitum eldi.

Ætlunarverk lífsins því til æfíngar.

136. Hví mun skipuð skyldavönd?
það skulum vèr nú segja:
víst ei þarf guðs voldug hönd
verkafólk sèr leigja.

137. Máttur skepna ei megnar par,
mætti guðs svo lètti[57];
en til lífsins æfíngar
ætlunarverk guð setti.

138. Eingla þó einn drýgði dáð,
drottni' ei gagnið ynni;
æfíng tóm er alt og náð[58],
eins og barn þar vinni,

139 Lögmál vegna mannsins mun,
en maður ei lögmáls vegna[59],
eptir þeirra ákvörðun
ætlun sýnist gegna.

140. Heldur ei svo haldist við
hölda milli friður,
lífsins aðill lögmálið
lèt í hjörtun niður.

141. Lífs ef nauðsyn laungum þrá
lypti' ei spennifjöðrum,
rekkar þyrftu ei rekast á
rèttar sviðs á jöðrum.

Ætlunarverksins viturlegi skamtur.

142. Hefðum ei fult í fángi vèr
að fylla það oss bæri,
ætlunarverkið okkar hèr
of lítið þá væri.

143. Að glíma við sèr minna mann
má ei framför veita;
en jafníngann örva kann
allra krapta' að neyta.

144. Ætlunarverkið okkar þó
á að vera stærra,
æfíngin því á fram dró
og alt af þokar hærra.

### Helgunin.

145. Herðum skeiðið helgunar,
þó hljótum sjá hið illa[60];
aldrei hèr oss ætlað var
alt lögmálið fylla[61].

146. Viljir þú minn vinur sjá,
vèr það hvernig sönnum,
endurlausnin eilífð frá[62]
ákvörðuð er mönnum.

147. Aldrei vizkan[63] ætlar sèr
annað en það, sem verður;
og um manninn vitum vèr,
að vextinum er af gerður.

### Framfararmagnið.

148. Framfarar - ef firðar - magn
feingið hefðu þegi,
lögmál oss ei gerði gagn,
gætum þróast eigi.

149. Lífinu magn það leiðbeinir
(lít þann eingil gæða)
um eilífðanna eilífðir
upp til ljóssins hæða.

150. Lít, ó maður! lífsins tign,
lausnara þakkir tjáðu;
opna hugskots augun skyggn,
elsku guðs nú sjáðu,

151. Lát þann eingil leiða þig
um lífs hèrvistar stundir;
þá mun dýrðin sýna sig,
sem ert búinn undir.

152. Viljirðu gánga vizku stig,
og verða kórónaður,
einhvern tíma ættir þig
á fram herða, maður.

### Dygðin og stríð holdsins og andans.

153. Dygðin hátt upphækkar líf,
helgun menn ef vanda,
stórum þegar stælir kíf,
stríðið holds og anda.

154. Holdið ekki held eg spilt[64],
en heimti blint náttúra[65];
líkt eru dýrin löstum trylt,
lifa með úlfbúð súra[66].

155. Ef hold vort aldrei anda mót
ættartánga bæri,
af dygð hèr taldri ei sæmd var sjót,
sofandi gánga[67] væri.

156. Á því dygð að æfast hèr
af örðugleika þessum;
eptir stríðið endað vèr
alt þá lífið blessum.

157. Þegar ekki þreytt er stríð,
þá er einginn sigur;
af krapta' áreynslu kemur í lýð
kjarkurinn dásamligur.

158. Girndir vinna' ei gagn það eitt,
er gjörðum nú um tala;
líkama þær líf fá veitt,
líkna, vernda' og ala.

159. Margopt skeður, megum sjá,
menn þó skyldum gleymi,

að stjórntaumana ei stríðir á
stýrir alls í heimi.
160. Þegar guði þóknast ei
að þraungva vondum lýði,
sèr hann betra, að fimbulfley
fram, sem horfir, skríði[68].
161. Reynslunnar ef rækjum vott,
rètt vel getum fundið,
að er á sporðum ílt og gott
einatt samanbundið.
162. Skilníngstrèð ef bærist brott,
björk lífs fölnuð stæði;
að vettugi haft þá verður gott,
ef vont er ekki' öðrum præði.

Í forveraldar myrkrinu kveikir guð vizkuljósið.

163. Gætum þess: hið illa er
ætíð vöntun gæða[69];
áður en þessi eignumst vèr,
oss þorsti mæða.
164. Herrans gjöf er hvergi þá
heimskan, sem vèr drögum;
nún vort óðal eilífð frá[70]
er með rèttum lögum.
165. Hennar dóttir sönn er synd,
sjálfir hana eigum;
móður fylgir fóstur kind[71],
huna rètt það megum.
166. Rètt að hugsa ríður á,
rètt að elska líka,
rètt að megna', ef móti þá
mælir girndin ríka.
167. Vizka, elska' og viljans megn
vinna dygð og glæða;
sè vort þessum sinnið gegn,
svo er þar vöntun gæða.
168. Sèrhver þegna', er syndga vann
síns í huga rennu,
verður ætíð vanta þann
að vísu eitt af þrennu[72].

Hið illa meiðir með árekstrum.

169. Vöntun þessi meiðir mann
með samvizku stíngum,
af því valdið ei fèkk hann
yfir tilhneigíngum.
170. Eins og fyrr er ætíð þjóð,
enn sèr lögin setur;
girndar áður vald fram vóð,
en vitið stjórnað getur.
171. Álpa girndir óvit með,
eins og skríll er gerður,
uns að skaði skiljast rèð,
og skynsemi drottníng verður.

Sakleysið og heilagleikinn.

172. Greinarmun þann gjöra skalt
(get eg hann aldrei skeiki):
sakleysið er sumum valt,
situr heilagleiki.
173. Sakleysis hin mæra mynd
megnar ei neitt við skorðast[73],

heilagleikinn hatar synd,
hana kann því forðast [74].

174. Eins og bókfell óskrifað
er sakleysið tóma;
ákvörðun nær ekki það,
ef ei fær vitsins ljóma.

## Þekkíng góðs og ílls er stofn heilagleikans.

175. Grein að læra góðs og ílls
guð oss ætlað hefur [75];
Kristí dæmið vörn er víls,
vissuna þar um gefur.

176. Kantu sjá, að Kristó var
kunnugt það hið illa;
og sú vizkan ávöxt bar,
að eingin tældi' hann villa.

177. Heilagleikinn hatar ílt;
hann það gæti þegi,
væri svo hið vonda skýlt,
að vissi hann þar um eigi.

178. Það hið illa þekkja fyrst
þurftu menn að læra,
að helgun sína þjóðin þyrst
bæði síðan kæra [76].

179. Það hið illa ef þekkja skal,
þurfum fyrst að sjá það
annaðhvert á öðrum hal,
ellegar sjálfir tjá það.

180. Ítum nægir ei með því,
að hjá synd þeir sleppi,
ef heimskan situr hjörtum í,
er henni má ske' að keppi.

181. Ef Adams hefði' og Evu dygð
eingin reynslan metið,
heimskan söm í hyggju bygð
hefði fólgin setið.

182. Svo hún yrði sèn við ljós,
sendast raunin átti;
þar af kunni karl og drós
kynnast, vit hvað mátti.

183. Í alheimsstjórnun ekkert slis
við Adams fallið skeði;
heldur einmitt áleiðis
áframhald þar rèði [77].

184. Er guðs skepna öldúngis
ekki' úr lagi geingin [78];
henni stjórnar höndin viss [79],
en hendíng slisa eingin.

185. Lýðir hljóta lærdóms til
á ljótri heimsku falla;
lærir hver ein skepna (eg skil)
af skaða hyggni alla.

186. Ellegar hljóta ófarir
annara þar um fræða
íta, hverra oss fyrir
undir verða' að blæða.

187. Guð upp tíðar vindur vef,
vizku til að glæða;
því ef reynslu gaum eg gef,
gjörir hún bezt mig fræða.

188. Vöntun gæða verður því
á vizku dúki þanda,

hans þeim fyrri enda í
til uppfræðíngar standa.

189. Eingin þurfti eilífðar —
eða tíðar — gánga,
ef alfullkomnun ætluð var
oss í vöfðum stránga[80].

190. Lætur drottinn lauk á fold
af litlum vísi gróa,
og yfrið seint hans aukast hold,
uns að blómstur glóa.

191. Svo' er alt líf, og sálin manns,
sèr ei mjög það flýtir,
góða mundin gjafarans
gáfunum lángsamt býtir.

192. Hví svo haga vizkan vann?
vel má sumt um hyggja,
að gefi ei, fyrr en girnist mann
gjöfina feginn þiggja.

193. Þó vèr gæðum æðstum að
á augabragði stykkjum,
ei nóg dýrmætt yrði oss það;
óþyrstir vèr drykkjum[81].

## Lífsins agi.

194. Djúpan sváfum dúrinn vèr,
dautt þá vorum efni.
vor að hálfu vöknuð er
vizkan af þeim svefni[82].

195. Hèr af leti heimskan blind
og holdsins tregða lemur;
heimsku fólgna sýnir synd,
og súta hríslan lemur.

196. Hún skal vekja af heimsku blund,
hyggnir svo menn verði;
og hvetja hina lötu lund,
svo lífið krapt sinn herði.

197. Heimska, freistíng, syndin, sút
er sannur píslar vegur;
en loks úr myrkri leiðir út,
í ljósið vizku dregur[83].

198. Freistíngin, er nefndum nú,
notin sönn kann veita,
yfirheyrsla ætti sú
í æfíng vizku heita.

199. Ókend gæði aungvum fá
örvað lystíng heimi;
svipuna ílls því meingi' ei má
missa fyrst úr heimi.

200. Líkt sem borg í lopti' ei má
laus frá jörðu hánga;
hvíla gæðin illu á,
ef þau skulum fánga.

201. Illu frá nær þekkir það
þjóðin, birtu flýr í,
laung svo eilífð liggur að
ljósinu, sem guð býr í[84].

202. Ýmislegt þó oss í heim
ófullkomið mæti,
er hið sama ætlað þeim,
að það sjálfur bæti.

203. Hestinn temja hljótum vèr
og hold, þá girndir æða;
menta barn sitt manni ber[85],
úr málmi sorann bræða.

204. þó menn sínu eðli í
ýmsan sora finni,
ber þeim sjálfum bæta úr því,
að björgun líf sèr vinni.

205. Ætlaður manni aldrei var
algjörleiki' í fyrstu,
heldur orkan umbótar;
á það líta virztu.

206. Annars mundi ekki veitt
oss framfarar-magnið,
og reynsla, sem fær lýði leitt,
lífi færði' ei gagnið.

207. Algjörleikann eilífa tíð
eigum vèr að læra;
mundin guðs svo megnar lýð
að marki settu færa.

## Lífsins örðugleiki.

208. Örðugleikinn alls konar
einmitt krapta nærir
aptur lífsins blíðan bar
birtu, er hressíng færir.

209. Eins guð dýrum aflraun bjó;
alt er mælt og vegið;
manninum ætlað meira þó,
er mest hefir krapta þegið.

210. Öld án mæðu ei sèr slá
undir guðs hönd færi,
þolinmæði' í þrauta stjá
þæga skin ei bæri.

211. þraut, sem líðum, meiri' ei mun,
en móti kunnum berjast,
ein er lífsins ákvörðun,
illu læra' að verjast.

212. þó mæti hvert það mótlætið,
sem má í heimi víðum,
himna föðurs hliðina við
hræðslulausir stríðum.

213. Vont ef ekki væri' í heim,
vissum ei guðs að þyrftum;
í faðminn skunda' á föður þeim
framar ekki hirtum.

214. Vort sem barndóms vanmættið
við foreldra bindur,
eins hið vonda óhæfið
oss að guði vindur.

215. Ef kynnum ei um kvalníng ílls
kenna okkur sjálfum,
heldur eikar yggdrasils
aumum bygðar hálfum.

216. Mundu þá ei meiðar seims
meinin þeim um kenna,
er gróðursettan hefir heims
háfan pálma þenna?[86]

217. Hans þá mundu hjálpar sízt
í hörmúngunum leita,
hann sinn óvin hèlda víst,
er hatri mundi beita.

218. Á elsku guðs ef vill ei vel
vermast lífs apaldur,
er hans blóminn allur hel,
eins og þviti kaldur.

219. Guð er sjálfur lífsins lind
láng-tærust hin fyrsta,

til uppsprettunnar efst á tind'
á því mann að þyrsta.
220. Ef háski sá, er hótar synd,
hefði ei mátt sig sýna,
elskan guðs í æðstu mynd
ei þá kunni skína[87].
221. Detta leið oss drottinn þá,
og dýrðlega reisti á fætur,
svo heimurinn síðan högunum á
hefði meiri gætur.
222. Á æfiskeiðs þá veltum váng,
varúð kennir þetta;
aldrei lærir æskan gáng,
ef aldrei fær að detta.

## 5. Vizkunnar skóli og háskóli.

Mannkynsins margbreyttu leiðir, er kanna vizkufjallið.

223. Skuli verða reynslan rík,
og rètta speki fánga,
hlýtur öld, sèr aldrei lík,
ýmsa vegu gánga.
224. Þegar heims af sögðum sið
sèzt hefir allslags tægið,
reglufagra rèttlætið
rètta sýnir lagið.
225. Skammar kransi skömmin krýnd
skal til sýnis vera,
og svo veröld allri sýnd
áminníngu gera.
226. Ef áminníngar ekki hèr
af annara feingjust vítum,
alt að reyna' á sjálfum sèr
seinlegt mundi ítum.
227. Fèju skipta ítum bar,
að sèr vinnu lètti;
ýmsir reyna ísinn þar,
svo allir ei niður detti.
228. Eins og fèlag, um vorn heim
út fór skarinn manna,
vizkufjallsins[88] víðan geim
við þess rætur kanna.
229. Það sem nefnum vizku vèr,
er vitur stundan gæða[89];
ættarsvipinn á sèr ber
af alspekinni hæða[90].
230. Ef allir geingju eina leið,
einginn hinar sæi;
mannleg vizka' á myrkra heið'
í mjóum einstig lægi.

Dómarnir um breytni mannsins.

231. Veröld í ef viljum hèr
vizku leiðir kanna,
hennar dæma hljótum vèr
hyggni gángstiganna.
232. Hèraðsdómur heita má,
(eg held þá líking sæma),
er eigin breytni ítar ná
og annara líka að dæma.
233. Sjálfir fyrst þó dæmum djarft,
svo drótt veg-skíma ljómi,

lángtum framar lærist margt
lýðum af efsta dómi.

### Efsti dómur, og hvernig hann glæðir lífið.

234. Heimur dæmast allur á
af Jesú, má gizka,
að ósegjanleg aukist þá
öllum mönnum vizka.
235. Mun þá sèrhver meiníng raung
af meistara hljóta fræðslu;
en tómlætinu typtan straung
tilbýr rètta græðslu[91].

### Gjöldin annars heims

236. Grein margbreytt[92], sem gjörist þá
glögg á farsældinni,
ítarlegast örva má
eptirtekt og minni.
237. Óhötuð, en sèn þó, synd
sitt fær brennimerkið,
svo auðkendur sviði og mynd
sjálft á bendi verkið.
238. Á tilfinnan, svo mínki mók,
merki drottinn setur,
að standi líkt og stafur á bók
stýlað vizku letur.
239. Ekki sloknar eldur sá,
einnig vizkan brennir[93],
andvaralaus þann missa ei má,
magnar hann líf[94] og spennir[95].
240. Ef ei kveiktur eldur sá
upp þá vakið gæti,
eilífur dauði dapur þá
dróttum yfir sæti.
241. Eilífur dauði ætlum vær
að rètt nefndur heiti,
ef aldrei maður orku fær,
er ákvörðunar leiti.[96]
242. O! hvað vizkan orkar skýr,
í alvöru rúnum skráða[97];
örvar sú og undirbýr
alla menn til dáða[98].

### Annarsheims köllun og endurgjald.

243. Undir köllun upphæðar
á sú vizka að búa;
öll skal þjóð til iðjunnar
aldar nýrrar snúa[99].
244. Hverjir þá vel stæðu' í stètt,
og stund á dygðir kæmu,
skjótt mun vegið skarpt og rètt
á skálir meta næmu.
245. Eða mun guðs ekki þá[100]
eins rèttlætið skína
og miskun, hver eð öldum á
ei kann geislum týna?
246. Eða mun guð ekki dygð
aðra vilja meta,
en hèrna gjörða heims í bygð?
hvað þá einglar geta?[1]
247. Eilífðar eg aldir rek,

alt er gæzku keðja[2],
svo grær vizka og sálar þrek
að sviðar agans gleðja[3].

248. Að hafa unnið agans til,
aldrei það samt gleður;
en það geingur eina í vil,
að af honum mentan skeður.

249. Iðran laung sú aldrei grær,
er aflaði tíð burt runna;
samt þeim gleði góða ljær,
gott ef stunda kunna.

250. Þó víti skamtist háska heitt,
og hegni eilíflega,
guð við betrun getur veitt
gæði, er móti vega[4].

251. Einginn miklast óskköpin
almáttugum drottni,
að eilífa hans orka svinn
þau ótal-bæta þrotni.

## 6. Röksemdir mót algjörri útskúfun.

### Hegníng og útskúfun er sitt hvað.

252. Eilíf hegníng annað mun
en útskúfun fullgerða;
algjörleg kann útskúfun
ei frá drottni verða.

253. Útskúfa guð aungvum kann
frá ætlunar setta merki;
ei þarf kasta hjólum hann
heims úr sigurverki.

### Hegníng er einginn aðaltilgángur.

254. Höfuðtilgáng[5] hygg eg þar
hegníng aldrei vera[6];
heldur meðal mentunar
mann fullkominn gera.

255. Mun guð skapa skepnu kind
í skelfíngar þá rötun,
að hún fyrst í sökkvi synd.
og svo eilífa glötun[7]?

256. En þó sumum hafi hann
hegnínguna' ákvarðað,
þeim hið góða forsjón fann,
ef frelsun þeirra varð það.

### Grein góðs og ílls er guðs ásett ráð.

257. Athuga þessum unt sè hljóðs:
alvís skapta lætur
aðgreiníngu ílls og góðs,
eins og dags og nætur[8].

258. Er það drottins ásett ráð,
sem alla veit fjársjóðu,
að eilíft skundi ítar láð[9]
illu frá mót góðu.

259. Er svo lífið ætíð nýtt,
ætíð betra' og betra,

eins og á vorin fagnar frítt
firríng köldu vetra.

### Himininn talar móti útskúfuninni.

260. Alheimsfestíng[10] einnig mót
útskúfunum ræðir;
ófarsæld má aukast ljót,
eymd sem fleiri mæðir.

261. Því meir himin þjóðin sèr
þaktan stjörnu grúa,
þeim mun fleira úrkast er,
ef útskúfun má trúa.

### Útvalníngarspekin[11].

262. Heims ef fáum gjörla gáð,
þar gumar störfin eiga,
er svo flèttað eilíft ráð,
að útskúfast ei mega.

263. Vondra[12] þurfti vörunar,
svo vektist dáðir svinnar;
orsök finnst því eingin þar
útskúfunarinnar.

264. Aðkall hefði aungva dáð
ef eingin refsíng væri;
en eingin refsíng yrði háð,
ef eingin synd viðbæri.

265. Ef virðum hart til varúðar
væri ei refsað stundum,
orðin lögmáls ekki þar
akta þá vèr mundum.

266. Oss á dæmis aðvörun
er því nauðsyn heldur,
sem girndin ein þá ginna mun,
guðs ef ótti' ei veldur.

267. Hið góða verka í öllum eins
ekki drottinn mátti[13],
því dæmið feingi ei dug til neins,
er draga lífs til átti[14].

268. Allir jafnir yrðu þá,
en einginn lífið hrepti,
dauðinn lægi dapur á,
dugnað allan hepti.

269. Að aðra leiði á undan guð[15],
en aðrir seinna fari[16],
eru svo ráðin ákvörðuð;
á fram kemst þá skari[17].

270. Að andans gjöf svo ójafna
alt mannkynið þáði[18],
eigna má því eilífa
alspekinnar ráði.

271. Hann eitt kerið heiðurs til,
hitt þar lægra setur[19],
þó með sínum ástar yl
eins þau bæði metur[20].

272. Menn, sem anda móti stá,
miklu sæta banni;
lofað er villast ljósi frá,
svo loks þeir komi' að sanni.

273. Góði kristni gæt þess mann,
gæzka drottins það er,
og að viltra einnig hann
er elskuríkur faðer.

274. Honum lízt um litla stund

lofa þeim að villast,
síðar rètta mun þeim mund,
er mega til aðhyllast[21].

275. Einmitt hegníng er sú mund,
er þá kann leiðrètta;
þó að sárt þeim svíði und,
samt er heilnæmt þetta.

276. Vizkan máta valdi þann[22],
svo veit rèttlætið skína,
ílls og góðs því annars kann
ei mismuninn sýna.

277. Í rèttu bæði og raungu skal
ræða', en hvergi þegja;
um allra handa vizku val
viljann æðsta segja.

278. Annars mundu mennirnir
mæla' á stalli teptir:
Eigum halda upp eptir,
eða niður eptir?

279. En eilíf hvernig útskúfun
til alrèttlætis náði,
ef þar gánga alt svo mun
að ákvörðuðu ráði[23]?

280. Einn að skapa í eilíft fár,
að annar farsæll verði,
á rèttlæti fyr reisti hár[24],
en rekka mun svo gerði.

281. Mælir það: „Ei mýldu naut,
með sem þreskja vildir[25];“
yndi mannsins, er hann braut,
móti' eilífum þorsta ei gildir.

282. Ógn er hugsan ill og sljó,
að ætla föður hæða
með ásetníngi og alúð þó
olbogabörn sèr fæða[26].

283. Ó, þann gjörðan órètt þèr,
elsku faðirinn góði!
þèr, sem faðmar alt hvað er,
og ást með ritar blóði[27].

284. Sendíngin þíns sonar nú
sýnir ást þá heita,
að einnig síðar ætlir þú
eptirskildra að leita[28].

285. Fyrirhyggjan fögur þín
finnur tryggar leiðir;
elskan söm, er eilíf skín,
um allan heim sig breiðir.

286. Æ! nú taktu' oss öllum frá
(ef ósk má fylla mína)
skýlu[29] þá, sem skyggir á
skæra hátign þína.

287. Mannahaturs braut er breið,
þá bragnar aðra styggja,
ef úrköst drottins, okkur leið,
ætlum hjá oss byggja

288. Einginn getur elskað guð,
þá ætlar hann sig að hata;
sú myrka hugsan meinþúnguð
manni um stund kann glata.

Öll vor dygð og verðskuldan er einúngis undir guðs náð komin[30].

289. Guð það launað getur eitt[31],

er gefið sjálfur hefur,
og heilla til oss hegníng veitt,
hann meðan ekki gefur.

290. Ef vizkan eigi kemur kæn,
kunnum fljótt þess gjalda;
sannleiks ást ef vex ei væn,
við rís mæðu alda.

291. Vilja styrk ef vantar oss,
verður framkvæmd eingin;
þau ef ekki þiggjum hnoss;
þolum kvala streinginn.

292. Rèttlætið sú raustin er,
sem reka skal og knýa,
að ófeingna menn afli sèr
enn nú gáfu nýa.

293. Alt hið góða guð oss lèr[32],
gjörir oss andinn fræða;
hitt, það vonda, ekkert er
utan vöntun gæða[33].

294. Vilja' og framkvæmd verkar hann,
vitna heilög fræðin[34],
uppörvanir veita vann
að velja' og fánga gæðin.

295. Af okkur sjálfum ekki neitt
orkum hug um renna,
dáð er vor af drottni veitt[35],
dygð er vill oss kenna.

296. Hvað er maður (hermdu mèr),
er hefurðu ekki þegið[36]?
gáfur, brúkun, gagnið er
af guði þèr út vegið.

297. Brúkunin þegi okkar er,
því uppörvanir gaf hann,
og samhljóðun eðlis lèr,
af sem tekur vafann[37].

298. Læknisdómur ekki á
við alla sami þegna,
uppörvanin alt eins má
ólíkt sálum gegna.

299. Uppörvanin ávöxt ber,
andans gjöf og trúin,
líkt og sèrhver okkar er
undir þessar búinn[38].

300. Eðli manns er ótalbreytt,
og ýmislega vanið,
örvun sama ýmsum veitt
ójafnt skeið fær þanið.

Menn hafa ei nema hálfa sjón nú,
en guð miskunar öllum[39].

301. Hálf er sjónin höldum gerð
hvar sem leyti náum;
myrk er oss ófarin ferð;
fram undan ei sjáum.

302. Skýrt má vera skiljandi
skyni gæddum þjóðum,
að einginn villist viljandi
vizkunnar á slóðum[40].

303. Vel ef þekti þröskuldinn,
þann í hugsun feldi,
mundi sig ei maðurinn,
mæðu selja veldi.

304. Gjörist manni gæzlan þúng,
getur valdið pínu,
viljans bönd hve vizkan úng
vefur að hjarta þínu [41].

305. Hönd guðs miðlar hans að vild [42],
hinum gefur síðar [43],
hans óbrigðul hittir snild
hentugleikann tíðar [44].

306. Mundi hann ei hafa rètt
á hjálmi lífsins íta
ljósin kveikja á liljur sett,
lángsamt þeim að býta?

307. Kenníng reynslu gjörist glögg
af gjafa lángseminni;
einmitt lífsins örvar rögg,
að árekstrana finni.

308. Þegar fyllir firða um alt
fullkomnanin lánga [45],
þá mun borgast þúsundfalt
þessi mæðan stránga.

309. Faraó gefa hlýðinn hug
herrann ekki vildi;
af því höndin almáttug
öllum kunnug skyldi [46].

310. Undirbúinn illa var
öðlíngur að gegna,
heiðínglegrar hjátrúar
hans inngrónu vegna [47].

311. Hefði Faraó feingið skipt
við fylki Davíð anda,
hans þá mundi hærra lypt
hlýðni' í ritum standa.

Þess vegna verður ekki öll betrunartilraun hèr.

312. Alla tilraun ekki hèr
við ýmsa reynt guð hefur,
þá að betra; þetta mèr
þess von síðar gefur.

313. Ef Týrus hefði' og Sídon sèð
og Sódóma kraptaverkin,
iðrun hefðu' í ösku tèð
og önnur hlýðnis merkin [48].

314. Sódóma hin sama var
söltuð eldi rauðum [49];
að virðum sett til varúðar
veki af syndum dauðum [50].

Guð skamtar gáfurnar og leiðir til lífsins.

315. Misjafnt guð oss miðlar pund [51]
misjafnt ávöxt krefur [52],
krafan örvar íta lund,
alt því drottinn gefur.

316. Kröfuna eflir auglýst náð [53],
um elskuna guðs hún spjallar;
þessa trúin getur gáð,
guð sinn föður kallar.

317. Guð uppbyrjað góða verk
gjörfullkomnar þanninn [54],
lífsins til svo líknar sterk
leiðir guðs hönd manninn.

### Vèr erum alveg ekkert annað en afskömtuð guðs öfl.

318. Vizku, elsku' og viljans fèr[55]
vekur guð og nærir[56];
hann því fyllir alt hvað er,
eflir líf og hrærir[57].

319. Erum vèr sjálfir ekki neitt,
ekkert því vèr megnum;
fer oss drottins aflið eitt
sem ægir báru gegnum[58].

320. Af afli drottins orkum vèr[59],
afl það hugann fyllir,
elur kærleiks eld í þèr[60];
örvar vilja' og stillir[61].

321. Sköpun þannig skiljast á:
skapa' er, ekki að smíða,
heldur eigið aflið ljá[62],
ákvarða og prýða.

### Neitun útskúfunarinnar þar af.

322. Útskúfunin ekki þá
almáttugum lyndir;
sjálfur drottinn öflin á,
ótal sett í myndir.

323. Fyllir guð svo eitt og alt,
afgrunn djúps og hæða[63];
honum ei þó eigna skalt
hið illa, vöntun gæða[64].

### Hví ekki sè strax byrjað á því fullkomna.

324. Ófullskipað er þar rúm[65]
að alspekinnar ráði,
uns upp ljómar ljósið húm,
líf sem eptir þráði[66].

325. Annars þurfti aungva tíð
í sköpunarverki,
ef algjörleikans ár og síð
alt í stæði merki.

326. En þá væri umbreytíng
einúngis til skaða,
og lífið allan heims um hríng
hörðust kyrðar staða.

327. Einmitt lífið yrði þar
oss klettfastur dauði;
breytíngin til betrunar
bætti þess ei auði.

328. Öll náttúran er svo gerð,
að aldar leiki' á hjólum;
ætlað lífi er eilíf ferð[67],
eins og himinsólum.

329. Algjörleik er ekki að fá
hjá endanlegri veru,
einnig himnar himnum á
hreinir þegi eru[68].

330. Oss að tíðin finnst á ferð,
en fast að rúmið standi,
þetta einmitt guðs er gerð,
gæzkan bæði þandi.

331. Vöntun gæða virða flýr,
vizka og ljósið mæta,
ó! hvað sú er dásemd dýr
drottins; þess má gæta.

332. Eilíf gæðin eigum í fáng,

hið illa' á baki flýr oss,
þess hið fyrra þrauta stáng
þekkíng sælu býr oss.

333. Blessun því er baka til,
blessun hin að framan,
blessanir um oss báðar skil
bindast höndum saman[69].

334. Nú við tíðar fagurt frón
fagnaðar vèr nutum,
aðra rúmið opnar sjón
í samtíða hlutum.

335. Ljóssins tröppur lítum þar,
líf sig ójafnt bálar;
oss framfarir eilífðar
eins og spegill málar.

336. Áður mæltum um það vèr,
þá andans gáfu töldum
ójafna; nú birta ber
betur lífs af gjöldum.

Manna verðskuldan eingin, og því eingin útskúfun.

337. Það ei lýðir þakka skáp,
að þann í lögðu sjóði[70];
og hafi þeir tómum haldið kláp,
hefna sízt af móði.

338. Aungvan guð því ásakar[71],
við aungvan neitt hann metur[72];
hegnir lýð til lækníngar,
með launum styrkir betur[73].

339. Einnig mættu einglarner
undirtaka og segja:
„Ónýtir þjónar erum vèr[74],“
þá ei frá rèttu beygja.

340. Þarf ei neina þjónkun guð,
því hann alt kann verka[75];
öll er skepnan upptendruð
af hans krapti sterka[76].

341. Hvað á guð að gjalda þèr[77],
gjöf hans alt þar sönnum?
verðskuldan því eingin er[78]
einglum hjá nè mönnum.

342. Endurgjald því aldrei var
æðsta mið rèttlætis,
heldur örvun alúðar,
og lifnaðar bætis.

343. En þar gjöldin gefið fá
góða viljann meingi,
reikna þau sem meðal má,
menn sem helgað feingi.

344. Ef rèttlætis ei raust er herð,
rekkum ekkert geingur,
en það setur alt á ferð,
eins og klukku streingur.

345. Stillikólfur heptir hjól,
að hart um of ei renni,
holdið eins þá hindrun ól,
er hóf á flýti kenni.

346. Líkt sem góður guð það vill,
að gjörum mót vondu stríða;
eins hann bauð að ófá ill
æfi kraptinn lýða.

347. Ef stillikólfur klukku' er fjær,
klykkir hún streingi' út lánga;

dygð ef spyrníng fýsna' ei fær,
finnst þá sofandi gánga.

348. Alheims stjórnar undranir
alt skal þetta kenna;
andans kraptar eilífir
eins og gángverk renna.

### Ef guð vill, hljóta allir að fullkomnast.

349. En ef guðs er alvara,
að allir til sín nái [79]
hitt kann aldrei hjá fara,
að himin loks þeir fái.

350. Rèttlætið fær vissu veitt
um vilja guðs hinn sterka;
því ófyrirsynju er orku beitt,
ef ei kann loks að verka [80].

### Guðs ákvarðaða ráð, stjórn og fyrirhyggja; forlaga samskeytíng.

351. Alvizkan, hún er svo viss,
er anda stýrir knörnum,
að ei þarf kasta útbyrðis
endurleystum börnum.

352. Tálmar eingin hindran höst
herrans ráðum fjörgum;
hann þau streingir fjötrum föst
að fram-eilífðar björgum.

353. Óvissan, er skatna skók,
skekur ei drottins hendur;
því alspekinnar ekki' í bók
orðið „kannske" stendur.

354. Úr óskapnað' hann alla tók
án handgripa villu,
eins og virðar velja bók
vel kunnuga' úr hyllu.

355. Alvizkan á undan las
alla breytni manna,
æfir valdi utan flas,
eigin vild fèkk sanna.

356. Ef Júdas auman Iskaríot
að ætlun leitt ei feingi,
hans í rúmið hafði ei þrot
hölda', er ólíkt geingi.

357. Óskapt syndgar ekki neitt,
er það hugmynd tóma;
sköpun mörgu' úr skilur eitt,
hver skuli forlög hljóma.

358. Af því hlýtur alt þar ske
að ákvörðuðu ráði,
útvalinn hver einn fram stè
af óskapnaðar láði [81].

359. Út svo völdu æfirnar
í eitt guð saman skeytir;
af því kemur aldarfar,
er einginn máttur breytir.

360. Annan veg því ekkert fer,
en ætlað vizkan hefur;
og til þess nokkur týni sèr,
tilveruna' ei gefur [82].

361. Alt er skoðað eilífð frá,

ekkert guð því skapar,
utan hvar við sjálfur sá
að sitt ei áform hrapar[83].
362. Alt er skoðað eilífð frá,
aldrei guð því reiðist;
óvart kemur ekkert þá,
alt að marki leiðist[84].
363. Alt er skoðað eilífð frá,
ekkert guð því líður,
utan hvað hann sjálfur sá
að sælu mesta býður.

## 7. Yfirlit og endurskoðun lífsglæðíngar-meðalanna.

Eigin kjara ábyrgðin undir yfirstjórn guðs forsjónar.

364. Samt útkrefst til sælu fast,
að samvizku menn gegni;
á sig hver að ábyrgjast
eptir sínu megni[85].
365. Ábyrgðar hvar orkan dvín,
í guðs forsjón stöndum;
æfast börn í umsjá sín
undir föðurhöndum[86].
366. Eigin kjara ábyrgðin
upphaf vizku kennir,
óttinn guðs af alúð sinn
allan krapt þá spennir[87].
367. Ef ótti bæði' og aðköllun
yfir menn ei dyndu,
fram að sinni fullkomnun
fara þeir aldrei myndu.
368. Elskan burtu ótta slær[88],
ylnum glæðir nýum,
eins og renni röðull skær
rosa fram úr skýum.
369. Gleymum aldrei, guðs þó við
gaungum leiðslu þráðinn,
að inn er fléttað aðkallið
í ákvörðuðu ráðin.

Guðs öfluga leiðsluhönd.

370. Eina járn-hönd eg veit þá,
er almáttuga kenni;
vil eg nefna vöðva þrjá
volduga í henni.
371. Sjálfselskan er sett í þjóð,
svo hegníngar eldur
og viljinn frjáls, er gæðin góð
gjarna kýs þó heldur[89].
372. Þessi kröptug þrenníng töld
þángað manninn leiðir,
hvar eð sælan, sett fyrir öld,
sinn út faðminn breiðir.
373. Heimskan sár með synda grönd
sútum hjartað meiðir;
en sú gleður öflug hönd,
er alt til dýrðar leiðir.

Vandfærni lífsins.

374. Valið gæða vanda fylt

í vizku og dygð mann æfir,
að geti á böndum gæfu stilt
geingið, eins og hæfir.

375. Ekkert dýr, sem ekra ber,
eins er slægðum búið,
sem girndin, þegar ginna fer,
og getur vèlum knúið.

376. Höggorms slægð er haldin stærst[90],
og holds vèr girndir sönnum,
fyrirboðin að glis fá glæst
glepja sjónir mönnum.

377. Af því höggorms heitið gaf
heilög ritníng girndum,
er vort sakleysið vèlast af;
þær vefjast hlykkja myndum.

378. Helvítið, sú hegníngin,
hlið sitt opnar breiða[91];
afarslægi andskotinn
ákaft girnist veiða[92].

379. það sannleikur alt er einn,
ýmsum klæddur myndum,
„að virða kunni varla neinn
varast háska af girndum“.

380. Ekkert dýrið ætlar sèr
í óvinar klónni lenda;
alt fyrir það þó einmitt ber
að þeim háska kenda.

### Árvekni og guðs umgeingni greiðir úr henni.

381. Vaka' og biðja vinur skalt,
að vèl umflýa kynnir;
mátt fyrir guðs þú megnar alt,
meður trú svo vinnir[93].

382. Guðlegt sinnið gjörist þá,
guðs ef til þú biður[94];
fylgja guðs umgeingni má
gleði, ljós og friður.

### Von og forlagablindni.

383. Vonin djörfúng vekja má,
en vor forlaga-blinda
andvarann oss elur hjá,
upp til segl að vinda.

### Guðs forsjón, framsýni, og ósigranlega ráð.

384. Skilst mèr af til skírteinis
skýrum rökum töldu,
að ei kom vont, sem óvænt slis,
inn í guðs veröldu.

385. Hið illa hlýtur (eg svo skil)
einmitt lífið glæða;
vizku guðs eg vitna til,
vill sú heimi gæða.

386. Vindhögg aldrei vizkan slær,
verður alt henni að hlýða,
eins á morgun og í gær
er eilífa sjónin fríða.

387. Ráð er valdi vizkan svinn
verða' af aungvum brjáluð[95],
eins og spjald er eilífðin
öll fyrir guði máluð.

388. Vegina leggur vizkan þar,

verunum bezt sem hlýðir;
eins og landkort umfjallar
óframkomnar tíðir.

389. Viljinn frjáls ei varnar því,
hjá verum í framtíð blindum
eru ráðin eins og ský,
ýmsum feykt af vindum[96].

390. Þá ráð sín dylja lymsk eða laung
leið guðs hreint að beygja,
guðs í viljans gaungin þraung
götuna beint þær sveigja[97].

391. Vondra þverúð vara kann
vissa mælda stundu;
sigur í framtíð setti hann
sína fast í mundu[98].

392. Án guðs vilja einginn kann
á jörð fuglinn detta[99];
hár eru töld um heilans rann;
hugsa, maður, um þetta.

393. Alt hefir teingt, svo á er hind,
æðsta hagleiks mundin,
öll er skepnan ein hugmynd
alveg saman bundin.

394. Heimur fer ei hársbreidd frá
herrans ætluninni,
er hann frá eilífð horfði á
í hyggju bjartri sinni.

395. Verður þar af veröld öll
vizkunnar í skorðum;
alda skoðun opnar snjöll,
hvað ekki þekt var forðum.

### Ályktun.

396. Ei meir ræðir um það hèr,
þó eymdir mæði hörðu;
lífið glæðir alt, hvað er
um uppheim bæði' og jörðu[100].

397. Ó þú, dýrðar afgrunnið!
unun kant mèr sýna;
himin, jörðin, helvítið
hermir elsku þína[1].

398. Mætti' eg þína sífelt sjá
og signa[2] dýrðar iðju,
himin sælan hefði eg þá
í helvítinu miðju.

# IV. Ný staðfesting hins fundna alheimsáforms, eða tilgángur og myndun alls líkamlegs efnis fyrir mótspyrnu, samloðun og þýngd.

## 1. Mótspyrnan er guðs afl eða átak.

399. Þannig lífi þjónar alt,
þreifanlegt sem nefnist,
og sjáum vera svo margfalt,
samið þó án efnis.

400. Alt hvað litið augað fær,
eða mund kann þreifa,
andlegur kraptur einn er tær,
þann almættið má hreifa.

401. Mótspyrnan[3] sá máttur er,
mín sem orðin þýða,
guðs í mundu himins her
og hauðrið skapar fríða.

## 2. Tilgángur mótspyrnunnar.

402. Líf svo blómgist, herrann hár,
honum eins og lyndir,
sagðan krapt um síð og ár
setur í alls kyns myndir.

403. Ef máttur þessi, mótspyrna,
markaði' ei sviðin geima,
þá í gapi ginnúnga
gjörvalt mundi sveima.

404. Eingin stöðvun yrði þá,
eingin reyndin væri,
eingin mentun andans há,
ekkert ljóma bæri.

405. Því að hrífi ekkert á
öll skilníngarvitin,
reynslan frædt ei feingi' oss þá,
frá oss alveg slitin.

406. Á sagðan hátt ei sálin úng
sannleiks þekkíng græddi;
drottinn því í duptin þúng
með dásemd hana klæddi.

407. Elskan guðs um æskustig
öndina dáð-ber-snöggu,
eins og móðir ástúðlig,
umbýr heims í vöggu.

408. Að sú líknarhöndin hlý
hjúkrað fái betur,
líkams allar þessar því
þiljur í tómið setur.

## 3. Mótspyrnan er almættisgeislar, er gánga eins og stormar út frá sèrhverrar frumagnar miðju.

409. Iðan kvikar almagns þá
alla rúms um geima,
aflgeislarnir[4] út svo frá
ótal púnktum streyma.

410. Þá aflgeislar frá einum púnkt
annars mæta verða,
fyrirstaða', er þrýstir þúngt,
þar sig tekur herða.

411. Mótspyrnu hvað magn er þá?
mitt er þannig svarið:
vissir púnktar varnað fá,
að verði í þá farið.

412. Þegar kemur þessum nær
þeirra líkur granni,
stríður krapta stormur tær
stendur af himna ranni.

413. Einn sá púnktur mynda má
meður hvolfi smáu,

sem aflgeislarnir farið fá,
frumögnina knáu.
414. Eins og foss í áar hyl
eys fram nýu vatni,
felli-slögum [5] fleytt er til,
að frumögn eigi sjatni.
415. Endurnýast ögn svo þar,
æ nær tíð fram rólar,
eins og fossinn elfunnar,
eða geislinn sólar.
416. Hvaðan kemur aflið að,
er frumögnin geymir?
Elfa heitir almagns það,
sem út frá púnkti streymir.
417. Frumögn er svo feiknar smá,
að fáum ei handsamað;
til svo gjörir títt að slá,
að talníngu fær lamað.
418. Tíðleik þann og téða smærð
eg tel þess orsök sanna,
að efnið hvílir alt með værð
augum fyrir manna.
419. Þetta er oss þá til gagns,
því mótspyrnan ella
líkust rykkjum rafurmagns
rétt oss mundi hrella.
420. Þannig sig í efnið alt
agnir fyrstu mynda;
því næst fara þær ávalt
að þraungva, loða og binda.

## 4. Samloðun (Cohæsio).

421. Samanloðun vitum vær
viðnám böndum þræðir;
inn í hvolfin ekki nær,
utan tjöldum klæðir.
422. Þannig lög, er þensla að fer [6],
þylur vizku ljómi [7],
heimurinn svo að allur er
almagns banda drómi.

## 5. Líkamir.

423. Af ögnum teingjast þræðir þá,
og það með listum snjöllum;
vefur þar úr vizkan há
voð, er líkam köllum [8].
424. Eins frumagnir mynda mold,
málm og gufu tæra;
þar úr hnoðar þýngdin fold,
þétta' og skepnu-bæra.

## 6. Þýngdin (Gravitas).

425. Spyrjist að, hvað það sé þýngd,
þá eg svara vildi:
hver ein frumögn, hvolfum kríngd,
hvetja til sín skyldi.

426. Í innri hvolfum er hún stríð,
utar síðan deyfist,
því að nær þau verða víð,
vita má hún dreifist.

## 7. Störf þýngdarinnar.

427. Þýngdin saman þrýstir mold,
þýngd svo hnoðu víndur,
þýngd um röðul þeytir fold,
þýngd sól-mekki bindur.

## 8. Yfirlit yfir alt hið líkamlega og heimfærsla til eilífs lífs.

428. Eilíf spekin, þannig þú
þúsund verk í einu
fær algjört, að framkvæmd sú
fatist ekki' í neinu.

429. Þýngdar boðorð þegar geim'
þinn vill skipa munnur,
heyra strax og hlýða þeim
hismi, jarðir, sunnur.

430. Alt er hendi þinni þjált,
(það oss himin tjáði)
eins og gjöri alt sig sjálft
æðsta þó með ráði.

431. Eilífs lífs hèr æðstan nú
undirbúníng kenni;
rúms og tíðar tjöldin[9] þú
tígugleg útspennir.

432. Myndar agnir mótspyrna
af mætti þínum snjalla;
þú svo lætur þýngdina
þessar saman kalla.

433. Samanfestir síðan þær
samloðunar bandi;
í rafurmagni ljós þú ljær
og lífs yl óþrjótandi.

434. Lögð er þannig listum með
lífsins gróðrarstýa,
uns að kviknar enn óséð
eilíft fjörið nýa.

435. Ó, hvað þitt er alvald gilt
umskygt tignar húmi!
Æ þú málar, eins og vilt,
öfl í tíð og rúmi.

436. Haldast blítt í hendur þar
hæstra listra sveitir.
Ó það ljósið ununar,
sem ímynd guðs hèr veitir[10]!

# V. Hátignin í alheimsáforminu.

## 1. Takmarkalaus vídd heimsins, eða alvíddin.

437. Annaðhvort, það vitum vèr,
að veraldanna skari
eingin takmörk eigi sèr,
og alvíddinni svari.

438. Ellegar honum utar frá
um alvíddina sveimi
önnur verkin alvalds há
í ómælínga geimi.

439. Því altíð rúm, sem umkrínger,
eflaust verður stærra
hinu, sem þar inn í er,
að ummálinu smærra.

440. Líkt sem tíð, þó leingsta sè,
loks ef endíng hefur,
eilífðar spent afgrunne,
í augnablik sig vefur.

441. Eins hvað lángt sem leiptur ná,
þó linni hugar krapti,
og sèr týni' í undrum há
anda heimur skapti.

442. Samt ef þrýtur leiptra lá
loks í umgirðingum,
rètt hún púnktur reiknast þá
hjá rúminu þar í kríngum.

443. Og almáttugs í himna höll
handaverkin gildu,
í púnkti þeim sem ekkert öll
inni kreppast skyldu?

444. Sami púnktur sýnist mèr,
sèr að týna mætti
í tómi því, sem tjáist hèr,
að takmörk hvergi ætti.

445. Og hvar af valdi herrann klár
heldur púnkt þann smærri,
alt þar tómið eins vel stár
almættinu nærri.

446. Hvað úr tómi koma kann,
er kynni hindra starfann?
Ei er nema að hugsi hann,
hvergi efnið þarf hann.

447. Hann útþandi rúmsins rann,
í rúmi og tíð ófundinn;
segjum því ei sjálfan hann
sviði vissu bundinn.

448. Ef þá skipað yzt er tóm
óskapnaðar húmi,
mundi guð, að mínum dóm,
meiri' að tíð en rúmi.

449. Eflaust rúmsins alvídd skær
eilífð tíðar svarar,
svo að guðs á gjörðum þær
gángi alsamfara.

## 2. Alvídd og eilífð í samvinnu.

450. Alvídd fríð og eilífð kær
(á það skulum hlýða)
sitja eins og systur tvær,
sem guðs ríki prýða.

451. Iðjan söm er þeirra, því
þær af elsku stýrðar
rúms og tíðar ranni í
rekja vefinn dýrðar[11].

452. Svo eru brúðir samhentar
í salnum, hvar þær vinna,
að mætti hvorug missa þar
mundatökin hinnar.

453. Ei þeim sleppa' hún alvídd má,
annars vil eg meina,
samanhlypu sólir þá
sinn í púnktinn eina [12].

454. Ef hætta tökum handanna
hennar systir næði,
sæfin gjörvöll andanna
augnablik þá stæði [13].

455. Sitja brúðir sem í kross,
söm er fæðíng tveggja;
vöxtur og aldur virðast oss
vera eitt því beggja [14].

456. Kúlan, sem frá sól út fló [15],
ef sveima um eilífð feingi,
út úr faðmi aldrei þó
alvíddar hún geingi.

## 3. Ómælanleiki guðsríkis, hugarflug í alvíddinni.

457. Guð þitt veldi' án ummáls er,
ögn þess hver er ljóma skrýdd,
tölu og mælir týnum vèr
í tímans leingd og rúmsins vídd.

458. Hvert skal eg þèr fara frá,
að finni mig ei augu þín?
þó flug eg taki' í himin há,
hönd þín eins vel nær til mín [16].

459. Renna fram þó reyni eg
til rásar mínum skjóta hug,
sem leingur ei er lángan veg
en lítinn spöl að þreyta flug.

460. Áður fram hann fer af stað,
að flýa, drottinn, ríki þitt,
geymdur er, eg get á það,
guð, í þínu veldi mitt.

561. Þó hlaupi skeið, sem harðast kann,
í hundrað þúsund árin sitt,
gistir eins, þar gekk til hann,
guð, í þínu veldi mitt.

462. Þó á fram haldi um eilífð snar
endalaust í rúmið hitt,
þú alt eins gætir gjörvalls þar,
guð, í þínu veldi mitt.

463. Alt það rúm, sem endíng ber,
á augabragði fljúga kann;
en frá þèr um eilífðer
endalausar kemst ei hann.

464. Ef ert reiður [17], æðsti guð,
ógnarleg er makt þín há.
Ef ert vinur, æ fögnuð!
af unun ljómar veldið þá.

## 4. Guð stýrir stóru og smáu.

465. Guð, nær himin horfi' eg á,
er hendur þínar gjörðu,
hvað er maður, hugsa' eg þá,
að hann þú manst og jörðu [18]?

466. Sólkerfum þú setur rás,
sem og ari í geislum,
Eingli skaptir andakrás,
ormi bauðst að veizlum.

467. Sólir gánga sína leið,
sem þú, drottinn, býður;
gleði' og hrygða skundar skeið,
að skipun þinni lýður.

468. Segulbatt þín heima hönd,
hörðum skruggum ræður;
ástar hjóna bindur bönd,
börnum teingir mæður.

## 5. Bygð í stjörnum og tilgángur hennar.

469. Ei mun stjarna allur her
ekki þjóna lýði;
fyrst hauður ei mót himni er
hjá, sem dropi' er víði.

470. Víst oss þækti viturt ei,
ef vildi snígill meina
í heiminn fædda hnikars mey
handa sèr alleina.

471. Miklu síður megum vèr
meina, sólar hallar
þúsund sólna þúsunder
þjóna oss gjörvallar.

472. Hvað oss stoða stjörnur þær,
er standa svo lángt burtu,
að augnasjónin ei þeim nær,
en þó lýsa þurftu?

473. Mundi undir mæliker
meistari sunnu tjalda
setja þenna sólna her?
svo má ekki halda [19].

474. Víst á þessi fagri fans
fyrir skepnum lýsa,
skæra' er mildi skaparans
skulu með oss prísa.

475. Lýsa mun því sèrhver sól
sínum plánetunum,
hvar lífs - skarar breytin ból
byggja' á upphverfunum.

476. Sólarljóss fyrst þurfa þær,
þar munu skepnur gæddar
augnaljósi eins og vær,
um sinn drottinn fræddar.

477. Stjörnubúar þessir þar
þannig sig til reiði
undir kjörin eilífðar,
á lífs tíma skeiði.

478. Annað líf svo eignast þeir,
eingilfagrir munu,
eilífðar þá meir og meir
magnast fullkomnunum.

479. Í lífsins orði oss lærdóm bar
lausnarinn elskufúsi,
um mörgu vistarverurnar [20]
vors í föðurs húsi.

480. Hefir bygðir búnar lýð,
þá burt frá jörðu vendir;
ljósum prýdd guðs borgin blíð
bjarta geisla sendir.

## 6. Ómælanleg gæzka guðs, er sèst þar af.

481. Ekkert minna áformið
uppheims stýrir láða
hafa mun svo háleitt við
himna smíðið tjáða.

482. Heitt ef elskar hilmir sá
hnöttinn litla jarðar,
æ, hvað mjög um alla þá
alvídd geims hann varðar!

483. Er hans gæzkan eins og þyrst,
ef svo mætti tala;
hópur mesti' í himna vist
henni bezt má svala.

484. Þar til skapa skepnur vann
í skapta ótal heima,
að gæzkan hans um gjörvallan
geiminn feingi streyma.

485. Allan geiminn um svo skín
ástin hans og mildi
alvöld streymir, aldrei dvín,
við ummörk stanza' ei vildi.

486. Óhultar en áin Rín
út í ratar sæinn,
gjörvalt flytur gæzkan þín,
guð, í dýrðar æinn.

## 7. Stjörnubúanna fjöldi og fjölgunarstand.

487. Mælt er þúsund millíóner
manna hèr á jörðu
lifi; þannig lærðra mèr
letrin kenna gjörðu.

488. Sól (af vexti skynja skalt)
skepna kann af hjörðu
þrettán þúsund — fóðra — falt
við fóstru vora, jörðu.

489. Mörg er stjarna meiri þó
mána hallar ljóra;
auða hnetti ei til bjó
alvaldur svo stóra.

490. Heldur bygða harla víst
heima af þar verandi
skara, sem af líkum lízt
lífs í fjölgun standi.

## 8. Lofsaungstilraun stjörnubúa.

491. Morgunstjörnur, mildíng, þèr
mikla lofgjörð róma,
bergmál sólna í björtum her
barna' af röddum hljóma [21].

492. Alskínandi eilíf vídd
eingla af saung þó hljómi,
dýrð ei verður þín útþýdd
þeim til fulls af rómi.

493. Þarf alheima sjón að sjá,
svo þar unun finna,
síðan orðin semja há,
svo það lofið inna.

494. Þitt eilífa dýrðar djúp
dugir ei skepna að kanna,
því hún bernsku hylst af hjúp,
er henni vill það banna.

495. Rètt þèr hæf ei rödd kann fást,
rúms og tíðar ljóminn,
sælda brunnur, eilíf ást,
upphaf lífs og blóminn.

## 9. Eilífur fèlagsskapur.

496. Anda faðir, ást þín heit
innbauð flokknum manna,
æðstar til í eingla sveit
unaðsemdír kanna,

497. Hvar eð dýrðleg ærin öld
innbyggjenda stjarna
fjölmenna mun fyrr um töld
fagurskarann barna.

498. Vini farna veröld frá,
ef verðan slíks mig gjöri,
mun eg þarna á síðan sjá,
sem umfaðma kjöri.

499. Innbyggjendur alvíddar,
er þá hljóta sælu,
vinir dýrstu verða þar
í vist hjá Krist inndælu.

500. Blessaði mun sá bróðirinn
bræðra hóp uppljóma,
honum allur himininn
hljómar gleði róma.

501. Guðs um ást þeir greina ljóst
gleðinnar æðstu í saungum;
einn blæs sæld í annars brjóst,
og hans drekkur laungum.

502. Ástúð vina innbyrðis
unun lèr margfalda;
sívaxandi er sældin viss
sú um aldir alda.

503. Því ætíð hitnar elskan mest
af framförum gerðu,
nær andi sá, hún á er fest,
yndislegri verður.

504. Og eptir því er andi hver
ununarsamlegri,
sem hann líkist guði gjör
í gæzku og vizku fegri.

505. En á skóla eilífðar
ógrynnin þúsunda,
allra stjarna innbúar,
einglar, menn, það stunda.

506. Hvílík gleði himnum á,
nær hópum þessum stóru
um eilífð fegrast elskan há,
er áður ei þektir voru.

## 10. Sól guðs dýrðar, eða lífsins eilífa blómgun.

507. Þú, guðs dásöm dýrðar sól,
þó dauf hèr megir finnast,
skýið, sem þitt skin oss fól,
skal um eilífð þynnast.

508. Úng sig skrýðir eilífð þá
alt af nýum ljóma;
veldin lífsins vakna há,
veifa' ósènum blóma.

509. Um lángar aldir lífsins trè[22]
limi fær út skjóta;
að sú blómgun eilíf sè,
aldrei guð mun þrjóta.

510. Dýrðar sól, nær sjáum þig
í silifnandi blóma,
æ, hvað munt oss yndisleg
að árum þúsund ljóma!

511. Þegar mæddir hèr í heim
hella' út beiskum tárum,
ljá þú geisla' af ljóma þeim,
er lýsir að þúsund árum.

512. Þessa birtu þó að hèr
þannig undra megi,
fyrsta dagsbrún öll þó er
eilífðar hjá degi.

513. Einlægt dýrðin upp þó sèr
um alda stigann fleygi,
fyrsta dagsbrún ætíð er
eilífðar hjá degi.

514. Þó alda hjól um eilífðer
aldrei stöðvast megi,
morgunbjarminn alt það er
eilífðar hjá degi.

515. Ó þú tíð, sem aldrei dvín,
öllu tignarlegri!
Ó guðs dýrð, er augum skín
alt af fegri og fegri!

516. Ó, þann fagra eingla heim!
ó, það kærleiks bandið!
ó, þann fjölda úr öllum geim!
ó, það dýrðar standið!

517. Lít, ó maður! lífsins tign;
lausnara þakkir tjáðu;
opna hugskots augun skyggn,
elsku guðs nú sjáðu.

518. Þessa sönnu sælu vist,
sem vèr nú um ræðum,
geff oss fyrir góðan Krist
guð á dýrðar hæðum[23].

# Skýríngar og tilvísanir.

[1] (í 2. erindi) f r á n n er gljáandi; en f r á r er snar.

[2] (í 8.) N j ó l a er nótt; sjá Alvísmál, 31. erindi.

[3] (í 10.) í næturinnar skuggsjá.

[4] (í 18.) þar sólinni var á hendur falið að útbýta ljósinu, þá þurftu allir hnettirnir að halda sèr að henni.

[5] (í 20.) þýngdin má ekki vera svo sterk, að pláneturnar detti inn í sólina, ekki heldur svo lin, að þær verði viðskila við hana, og elti aðra hnetti.

[6] (í 21.) Eins og sá, sem í rólunni situr, kastast eptir hríngboga.

[7] (í 25.) þessi fallbyssu- kúla fer hèr um bil 103 faðma á hverri sekúndu.

[8] (í 42.) S t i l b ó n er Merkúríus, Stilbónsvángur himin.

[9] (á 8. bls.) Að vèr búum í Vetrarbrautinni, er auðsèð af því, að hún umkríngir oss. Að vèr sèum þó ekki mitt í henni, er líklegt, af því að hún sýnist gisnari öðru megin. Að alt, sem vèr sjáum á himninum, sè og svo í vetrarbrautinni nema stjörnuþokurnar, er skiljanlegt, af því að þær nálægari sólirnar, vegna þess þær eru nær, glennast hver frá annari, sjást einstakar og útbreiðast um allan himininn; hinar fjarlægari þar á móti hlaupa saman, og hverfa auganu vegna fjarlægðar, en mynda með sameinuðum glampa sínum það glætubelti yfir um allan himininn, er alment kallast Vetrarbraut, þó allar einstakar stjörnur út um allan himininn heyri henni líka til, þegar hún er hugleidd sem eitt s ó l n a - s ó l a k e r f i. þessi ógnar grúi af sólum myndar þá flokk, sem er lagaður eins og þykk kríngla, hvað einnig er samkvæmast gánglögunum, þegar alt skal snúast nær því á einn veginn kríngum aðalsólina. Röndin á þessari kríngla verður þá leingst burt frá miðjunni, utan við hverja vèr búum, og mynda þá svo kölluðu vetrarbraut í þreyngri merkíngu. En flatvegir krínglunnar verða þar á móti nær miðjunni, og innibinda þær aðskildu stjörnur, er vèr sjáum útdreifðar um allan himininn, en innilokast þó af vetrarbrautarinnar baug.

Hið 46. erindi á svo að skiljast: menn halda, að sólna sólirnar hlaupi fyrir þýngdarinnar dráttarkrapt (á segultauma hestum) kríngum eina miðsól.

[10] (í 54.) þróinn er dvergur, fjörnir hjálmur, þróins fjörnir himin.

[11] (í 56.) Önnur þeirra er í Fjósakörlunum, en hin í Andrómedu belti.

[12] (á 9. bls.) Yfirlit. Röksemdin fyrir ódauðlegleikanum hljóðar þannig:

Sú mikla himinsins bygging boðar einhverja stóra fyrirætlan. En í öllu, sem vèr sjáum á himni og jörðu, er lífið það æðsta, og alt er þess vegna gjört, og það er aðaltilgángur alls hins sýnilega heims, því að:

1) alt þjónar lífinu og má kallast þess umbúðir.

2) Lífið stendur stöðugt, en skiptir sjálft um umbúðir sínar. A) Í fæðíngunni fleygir það utan af sèr sínu fyrsta hýði, (sbr. 61. er.) B) þegar það er stálpað orðið, yfirgefur sú lifandi skepna foreldra sína eður fósturforeldra, sem voru lífsins önnur umbúð, (95. er.) C) Á hverjum 10 árum æfinnar smáslitnar og gufar út allur þess líkami, svo ekkert verður eptir; en nýan líkama prjónar það jafnótt aptur (sbr. 62. er.) Eins hefir það hjálpað til í móðurlífi, að þess líkami yrði myndaður, því ef fóstrið deyr, fullgjörist ekki líkami þess.

3) Lífið má kallast ljós, eða lýsandi kraptur, er logar á alheimi, (sbr. 63. er.) A) það er ljós, ljósunum æðra, því ljósin væru öldúngis ósýnileg án þess, (sbr. 64. er.) B) þetta ljós (lífið) lýsir ekki út frá sèr, heldur að eins inn á við, eða fyrir sjálfu sèr (sbr. 65. er.) Hugarins og tilfinnínganna ljós gjörir bjarta fyrir sèr jafnvel aðra heima, þó einginn sjái það ljós, nema lífið sjálft; hvað eð sýnir, að lífið sè sjálfs síns vegna skapað, en ekki annara. C) Hver lifandi vera virðir mest sitt líf, þar næst hverrar annarar lifandi veru, en ekkert hið dauða, nema sem eign hins lifanda, hvað eð bendir til þess, að lífið sè hið æðsta í heiminum.

4) þetta ljós, lífið, nær jafnvel til þess ósýnilega og eilífa; því A) lífið skoðar og ímyndar sèr ekki einasta rúmið, heldur og alrúmið, ekki að eins tíðina heldur jafnvel eilífðina, (sbr. 67. er.) B) það ímyndar sèr þá æðstu veru, guð, og fullkomnunar áformið eður algjörlegleikann. þetta sýnir lífsins háu ákvörðun, (sbr. 68. og 69. er.).

5) Eptir guðs ráðstöfun fer lífið með dauðu hlutina eins og sína eign, og nýtir sèr þá, og nýtur þeirra; þar á móti nýtur hið dauða ekki hins lifanda og ekki

sjálfs sín, (sbr. 70. og 71. er.) Sèrhver týra af þessu ljósi aðgreinir sig frá öllu öðru, og kallar sig í huga sínum jeg, (sbr. 72. er.)

Þannig væri þá heimurinn einkis virði, ef ekki væri lífið, þá flýtur þar af, að það er guðs aðalverk, og þetta hans aðalverk verður eilíft að vera, (sbr. 74, er.) En ekki sýnist lífsins áformi vera fullnægt, þó þessar smátýrur lífsins sèu ótölulegar, bæði samtíða í þeim ómælanlega alheimi, og líka hver eptir aðra um alla eilífð, ef sèrhver þeirra ætti að slokkna aptur, (sbr. 75. og 76. er.). Þessar slöktu týrur yrðu þá til einkis, eins og gleymdur draumur eða útþurkuð skript, sem einginn hafði lesið, (sbr. 78. er.); þar allar týrurnar lýstu mest inn á við, minna innbyrðis, en alls ekkert fyrir dauðu. En sèu týrurnar dauðlegar sjálfar, þá er innbyrðis lýsíngin einber óþarfi; og því stærri óþarfi, sem alheimur er stærri.

Að kveikja þessar smátýrur snöggvast, eins og sè verið að þeyta upp bólum að gamni sínu, en koma þeim ekki til fullkomnunar, það væri líkast vitskertra manna athæfi, sem byrja á mörgu efnilegu verki, en hafa ekki ráðdeild eða staðfesti til að fullkomna neitt af þeim, (sbr. 79. og 80. er.) En hugmyndin um algjörlegleikann bendir til, að lífið gæti tekið á móti óendanlegri fullkomnun með óendanlegri eilífð. Það, að menn burtkallast á öllum aldri, jafnvel mest á únga aldri, já í móðurlífi, sýnir, að fullorðins aldur eða menníng hèr á jörðu sè ekki aðaláform guðs, heldur sè hið eiginlega líf ósýnilegt og eilíft. Þar fyrir eru öll líkindi til, að lífið komi einhvern veginn í ljós aptur, þó það hverfi í dauðanum. (sbr. 81. og 82. er.) Alt þetta bendir til, að einstaklíngs-lífið sè hið æðsta í heimi, og þess vegna aðaláform hans.

[13] (í 61.) 1. Mós. 2, 24.

[14] (í 66.) Einstaklíngurinn finnur eiginlega ekki nema til sjálfs sín, og þykist því vera einsamall í miðju eilífðar og alvíddar. Þó teingist hann með sam-tilfinníngum við granna sína.

[15] (í 76.) Röðulböndin, er binda saman sólirnar, eru þýngdin; tjald, ofið úr þeim, skal þýða himininn.

[16] (á 11. bls.) Yfirlit yfir lífsglæðínguna á vorum hnetti, 83. — 398. erindi. 1. Ástirnar. 2. Móðurlífsins alúðarfulli tilbúníngur. 3. Fæðíngin. 4. Foreldra elskan. 5. Ómagahálsinn. 6. Þroskunin. 7. Sjálfselskan. 8. Fullkomnunarfýsnin. 9. Heiðursfýsnin. 10. Samvizkan. 11. Heilagur andi. Hans almennu verkanir: A) helgunin,

B) guðs orð, C) bænin, D) trúin, E) elskan til guðs og náúngans, F) huggun í hörmúngum. 12. Endurgjaldið. þess ávöxtur er: vizka í breytninni, en hún er lífsins auga, (103. er.). Sú elska, sem guð elskaði oss með í sköpuninni, varir óumbreytt frá eilífð til eilífðar, því alvizkan fær aldrei neitt nýtt að vita, sem hún vissi ekki áður, hvers vegna þá er ómögulegt, að hinni elskandi alvizku geti nokkurn tíma hugur snúizt, svo guð fari að hata þann, sem hann elskaði áður, (104., 112. er.).

13. Rèttlætið eða reglan í endurgjaldinu, (113. er.). 14. Friðþægíngin. Hennar skilmáli (114. er.): A) Iðranin, B) trú, sem betrar hjartað. 15. Friðþægíngarinnar verkanir: A) opinberan guðs elsku, B) fyrirgefníng syndanna, C) friður samvizkunnar, D) sonar elskan, E) sú fúsa hlýðni, F) djörfúng bænarinnar, G) guðs aðstoð, H) sigur yfir syndinni, (115. — 117. er.).

16. Jesú lærdómur og dæmi, (118. er.).

17. Endurlausnin hefir kent heiminum þann lærdóm, að rèttlætið sè föðurlegt, (125., 128. er.).

18. Endurlausnarverksins skelfandi raust, (129., 135. er.).

19. Ætlunarverk lífsins því til æfíngar, (136., 141. er.); þess viturlegi skamtur, (142., 144. er.).

20. Helgunin, (145., 147. er.).

21. Framfararkrapturinn, (148., 152. er.).

22. Stríð holdsins og andans, væri það ekki, þá væri ekki heldur dygðin, (153., 155., 156. er.).

23. Dygðin, hún er líf, ellegar dáð lífsins, (153. er.).

24. Girndanna gagn, (158. er.).

25. Hið illa í heiminum má ekki alveg eða strax upprætast, (160. er.). Hvað hið illa sè; það er vöntun gæða, vöntun hins góða, vöntun verulegleikans eða hins skapaða. Alt hið skapaða er gott í eiginlegum skilníngi. þegar eitthvað skapað eða verulegt er kallað vont, þá er það samt ekki sjálft ílt, heldur sú vöntun góðs, er því fylgir. Hið eiginlega illa er eins og tóm eða eyða, og sem tóm er það sjálfgjört, frá eilífð, eins og heimsleysið, sem gekk á undan heimssköpuninni. það þarf því ekki að tilbúast, og hefir þess vegna aungvan höfund.

Guð skapar í tómið og eyðileggur hið illa, þegar honum þóknast. Spurníngin um uppruna hins illa held eg sè uppkomin af misskilníngi.

Þó það sýnist stundum, sem eitthvað tilverandi sè ílt, þá er, eins og eg sagði, hið eiginlega illa ekki annað en vöntun hins góða sjálf, t. a. m.: þegar Ágsborgartrúarj. segir, að maðurinn fæðist með girnd (ɔ: vondri), þá er sú girnd sama sem vöntun elsku hins rètta, og er komin af vöntun rèttrar hugsunar; því væri hugsunin og elskan rètt, þá mundi girndin fljótt leiðrèttast og verða rètt (sjá boðorða útskýríngu Lúters). En setjum hún vildi samt ekki leiðrèttast, þó að maðurinn elskaði hið rètta, og stríddi við girndina (hvað ekki getur skeð, ef hann leitar guðs með bæninni), þá yrði hún að vera einhver mjög sterk ástríða, og væri þá kölluð náttúrlegt ílt (malum physicum). Hún væri þá veiki eða sjúkdómur náttúrunnar. Hið gagnstæða góða væri þá heilbrigði náttúrunnar, eða frelsi frá ástríðunni, og ástríðan yrði vöntun frelsis, eða heilbrigðinnar, og þess vegna vöntun gæða. Með sama hætti eru allir sjúkdómar ekkert annað en vöntun heilbrigðinnar, eða vöntun hins góða ásigkomulags. Sýnist mèr þá heilbrigðin og frelsi náttúrunnar vera verulegra, en sjúkdómurinn; því hún er fullkomlegleiki, en hann ólag. Einginn heilbrigður fæst heldur um það, að sig vanti sjúkdóm, þar á móti kvartar opt sjúklíngur um, að sig vanti heilbrigði. Í daglegu máli hefi eg opt heyrt sagt um hið illa, og sem manni geðjast ekki að, að það sè óverulegt, óvera, og ógerð, á dönsku Uvæsen. Þar á móti um hið góða og tryggva að það sè reelt, og á íslenzku gerðarlegt. Þessi tvö orð: vöntun gæða ellegar vöntun verulegleika benda bæði til þess, að það sè gott, sem að vantar, því sjaldan kalla menn sig vanti, nema það sè eitthvað, sem viljinn girnist.

Tegundir hins siðferðislega illa eru: A) vöntun vizkunnar, vöntun rèttrar hugsunar, vanþekkíng sannleikans, heimska, villa, o. s. frv.; B) vöntun rèttrar tilfinníngar, vöntun elsku hins rètta, kærleiksleysi, skeytíngarleysi, dofinleiki, tómlæti; C) vöntun hins kröptuga vilja, lauslyndi, óstaðfesti, breyskleiki, tápleysi. — Þeir tveir síðari flokkarnir, í B og C, eru orsakaðir af vöntun rèttrar hugsunar, svo að heimskan eða vöntun vizkunnar er undirrótin alls ills. Af þessari skiptíngu er það fullsannað, að hið illa er hvorki meira nè minna, en vöntun gæða eða vöntun hins góða, samber útleggíngu Lúters yfir boðorðin og 1. Tím. 1, 5.: „Summa boðorðsins er kærleikurinn af hreinu hjarta, góðri samvizku og

hræsnislausri trú“. Einnig Matt. 22, 37.—40.: „Í þessum tveimur boðorðum er innifalið alt lögmálið og spámennirnir“.

26. Hið illa meiðir með árekstrum, með samvizkustíng og ótal hegníngum, (169., 170. er.).

27. Sakleysið og heilagleikinn. Mismunur þeirra, (172., 173. er.). Hið blinda sakleysi er ekki mannsins ákvörðun, (174. er.). Að þekkja hið illa er vort fyrsta stig til ákvörðunar vorrar, (178. er.) En síðan er mannsins ákvörðun að vaxa til heilagleikans.

28. Lífsins agi, (194. — 198. er.). Þar nú líf vort byrjar á heimskunni, þá er freistíngin eins og yfirheyrsla í æfíngu vizkunnar, (198. er.). Syndin er auglýsíng heimskunnar, svo heimskunni verði refsað og útrýmt; syndin er heimskunnar sýnilega mynd, (195. er.). Hegningin; hún er holl, þó þeim hegnda þyki hún ill. Hún veitir (196. er.) vizkuna eða hyggni af skaðanum, (197. er.).

29. Nytsemi þess illa, sem guð ekki vill hindra: A) syndin gjörir heimskuna sýnilega, svo henni refsað verði, (195. er.); B) það illa rekur mann frá sèr til hins góða, (201. er.); C) kennir lífinu sjálfsbjörgun, (204. er.); D) æfir alla lífsins krapta, (208. er.); E) knýr mann til að leita guðs, (213. er.); F) sýnir guðs elsku, (220., 221. er.); G) gjörir mann gætinn, (222. er.).

30. Mannkynsins margbreyttu leiðir, (223. — 230. er.). Þær kanna vizkufjallið eða undirbúa alvizku.

31. Vorir dómar (hèraðsdómar), um vorar eigin og annara gjörðir, eru oss til leiðarvísis í þessum heimi og til æfíngar skynsemi vorrar, (231., 233. er.).

32. Efsti dómur, sem leiðrèttir hèraðsdómana. Af honum flýtur (234. — 242.);

33. Sú almenna vizka; þar dómurinn skeður í allra manna augsýn, þá dæmast allra manna leiðir frá upphafi heims til enda. Þá sýnist hver maður mega verða svo vitur, eins og hann hefði sjálfur geingið allar þær leiðir með öllum þeirra kríngumstæðum.

34. Gjöldin munu með margbreytni sinni í farsæld eða ófarsæld gjöra dóminn glöggan, tilfinnanlegan, minnisstæðan og uppörvandi, (236., 242. er.).

35. Annars heims köllun; því til hvers skal annars sú mikla vizka, ef hún skal ekki brúkast, (243. er.)?

36. Ný gjöld fyrir annars heims þjónustu. (244. er.). Um þessi talar

ritníngin ekki eitt einasta orð, þar fyrir má hver hafa sína meiníngu frjálsa þar um. þessi síðari gjöld hljóta að ske, ef alheimsáformið skal eilíft vera; því rèttlætið er eilíft og miskunsemin eilíf, en þetta leiðir til alfullkomnunarinnar, (245., 246. er.). Hegníng fyrir þessa heims ódygð og laun fyrir annars heims dygð geta vel geingið samsíða um alla eilífð, (250. er.) Eilíf hegníng og eilíf útskúfun er sitt hvað. Sú fyrri getur varnað eilífum dauða, en hin síðari er sá eilífi dauði sjálfur, (252. er.). Eilíf útskúfun er ómöguleg, (253. er.); því að: A) einginn getur verið skapaður einúngis til hegníngar, eða hegníngin er einginn höfuðtilgángur heldur meðal. Ritníngin staðfestir þetta margfaldlega[1], (254. er.). B) Alt geingur þráðbeint eptir guðs ákvarðaða ráði, og líf vort byrjar á heimskunni, (257., 259. er.). C) Sá sýnilegi himinhnatta grúi sýnir, að guð vill hafa þær lifandi verur sem flestar, og hann ætli sèr því að fullkomna þær allar, en aungva að ónýta, (260., 261. er.). D) Vondir menn máttu ekki missast úr heiminum vegna viðvörunarinnar; mega því ekki gjalda þess, að þeir eru eptir skildir í ónáðinni. Án þeirra gæti rèttlætið ekki sýnt mismun góðs og ílls, (262. — 279. er.). E) Öll vor dygð og verðskuldan er einúngis undir guðs náð komin og hans ráðstöfun, Róm. 9, 16. Rèttlætið er því einginn verðugleika-reikníngur, heldur hrein uppörvun, hrein náð, (289. — 342. er.). Hèr af er ein grein: F) Öll betrunartilraun er ekki gjörð í þessu lífi, (312. — 314. er.); og önnur: G) Vèr erum alveg ekkert annað en afskömtuð guðs öfl, og mun hann þá ekki vilja útskúfa sínum eigin öflum, (318. — 323.). H) Rèttlætisins viðleitni, að lagfæra, sýnir, að lagfæríngin sè möguleg, (349. — 351. er.). I) Alvizkan gjörir stjórn guðs óhulta fyrir öllum slisum. Stjórn guðs þýðir, að hann ekki láti alt gánga, eins og gánga vill, heldur stjórni heiminum, svo að hann gángi eptir sem bezt er. Forsjónin og fyrirhyggjan gánga að öllu vísu fyrir fram, og framkvæma alt sitt áform án nokkurrar hindrunar eða hnekkis, (350. — 363. er.).

37. Eigin kjara ábyrgð undir guðs forsjón er áþekkust því, þegar góður faðir lætur börn sín ráða, og sjá um sig sjálf í búskapar byrjun, en hefir þó yfir-

---

[1]) þegar t. a. m. Ritníngin segir, að guð hegni í 4. lið, en launi í þúsund liðu, þá bendir hún til, að guði sè ekki jafnkær hegníngin sem launin, og að þar sèu þess vegna ekki tveir höfuðtilgángar, heldur einn einasti.

umsjónina sjálfur. Maðurinn hefir að ábyrgjast sig fyrir hegníngunum, en guð ábyrgist, að maðurinn nái sinni ákvörðun, (364., 365. er.).

38. Ótti drottins er upphaf vizkunnar, (365. er.). Aðkallið eða eptirreksturinn innibindur lögmálið, samvizkuna, skynsemina, reikníngskapinn, rèttlætið, endurgjaldið og eptirdæmið með þess uppörvun og aðvörun, o. s. frv. þessi atriði eru talin áður, en innibindast hèr í einu orði. þegar menn ekki gleyma þessu út úr alheimsáforminu, þá sýnist öldúngis hættulaust að trúa því, að alt sè af guðs forsjón fyrir fram ákvarðað, og þá hlaupa forlögin, forsjónin og frjálsræðið saman í eitt, (366., 368. er.).

39. Guðs elskan gjörir alt blítt og gleðilegt, og alt verður þeim til góðs, sem guð elska, (367. er.). Sjálfselskan, hegníngar-eldurinn og frjálsræðið leiða mann kröptuglega til ákvörðunarinnar, (369. — 372. er.).

40. Vandfærni lífsins æfir í vizku og dygð, (373. er.).

41. Umsátur hegníngarinnar vekur andvara, (374., 379. er.).

42. Árvekni, bæn og guðs umgeingni frelsar mann frá hegníngarinnar hættu, (380., 381. er.).

43. Vonin vekur djörfúng, (382. er.).

44. Forlagablindnin hvetur til árvekni; því ef maður, til dæmis, vissi, að fyrir sèr lægi að fordæmast, þá legði maður öldúngis árar í bát, þar maður sæi, að ekki væri til góðs að gjöra; því það, sem fyrirliggur, er öldúngis óumbreytanlegt. Eins ef maður vissi, að fyrir sèr lægi að verða sáluhólpinn, þá legði maður líka árar í bát; þar maður vissi, að hið fyrirliggjandi getur ekki haggast. Svo að ekkert nema forlagablindnin, ellegar að öðrum kosti alvizka, getur hvatt mann til atorku. Líka æfir forlagablindnin menn í skynseminni, með því að láta þá ígrunda, hvað forsjállegt sè og óforsjállegt. Að hið fyrirliggjandi er öldúngis óumbreytanlegt, er grundvallað á því, að sannleikurinn er aldrei nema einn um öldúngis sama efni, í sama tilliti, eða að ómögulegt sè, að eitthvað undir eins sè og ekki sè; hvað eð kallast grundvallarregla mótsagnarinnar, (382. er.).

45. Guðs óbiluga forsjón vakir yfir öllu. Fyrir-fram-vizkan sèr alt fyrir fram og spekin, hvað af hverju einu flýtur, hvar úr hún velur það, sem hún vill. Og þar eð allar þrjár tíðirnar, sú umliðna, yfirstandandi og ókomna, eru allar eitt fyrir guði, þá stjórnar hann þeim öllum þremur í einu, svo að alt geingur þráð-

beint eptir guðs vilja, svo að alheimur er eitt eilíft „skal“, sem einginn kraptur getur hið minsta andað á móti; því allir kraptar eru guðs, (384. — 397. er.) sbr. Mynster, 130. bls., l. 20., 21. Þessi hugsan er ekkert óttaleg, heldur gleðileg; því að í öllu drottnar einíng, regla, elska og vizka. Alheimur er keðja bæði í tíð og rúmi [1].

[17] (í 92.) Hèr er einkanlega meint til gufuverkfæranna hjá Englendíngum; en partur af Englandi heitir Wales (Vels); þar af leyfir höfundurinn sèr að nefna Englendínga Velska, þó Ítalir og Frakkar sèu einkum nefndir með því nafni.

[18] (í 93.) Sám. 94, 9.

[19] (í 100.) Róm. 8, 14. [20] (sst.) 2. Tím. 3, 16; 2. Pèt. 1, 21. [21] (sst.) Róm. 8, 26.

[22] (í 101.) Gefur trúna. [23] (sst.) kveikir elskuna.

[24] (í 103.) Sjá Bretschneiders Lexicon in Novum Testam., orðin Σοφια, Φως.

[25] (í 104.) Jak. 1, 17.

[26] (í 105.) Einginn sjálfráður býr það til, sem hann hatar; en hafi guð elskað manninn, þegar hann skapaði hann, þá elskar hann hann að eilífu, því alvizkunni getur aldrei snúizt hugur. [27] (sst.) Job. 5, 17.

[28] (í 107.) Allir lærðir þekkja mannlíkíngar (Anthropomorphismus, Anthropopathia), hvar talað er um guð, eins og hann væri maður, t. a. m. um hans hönd, fíngur (er þýðir mátt), hans iðrun, reiði (er þýðir hegníngu), o. s. frv. Þetta er gjört sumt til fegurðar og sumt til að laga sig eptir skilníngi ómentaðra.

[29] (í 112.) Jak. 1, 17.

[30] (í 113.) Guð endurgeldur jafnvel í þessu lífi: 1) með samvizkunnar dómi;

---

[1]) Ætti að telja upp öll atriði lífsglæðíngarinnar, þá yrði það endalaust; jafnvel það, sem menn þekkja af þeim, er óþrjótandi. Ætti að telja upp alla sálarinnar krapta, allar tilfinnanirnar, allar girndirnar, allar æðar, vöðva og bein í líkamanum, öll sambönd mannlegs fèlags og útskýra, hvað hvert eitt af þessu gjörir til lífsins fullkomnunar, þá yrði það ótækt og ómögulegt. Samt heldur höfundurinn, að hið fáa hèr að framantalda geti gefið hugvekju um, að alheimsáformið sè óslítandi keðja.

2) með því að hafa gróðursett sannleiksfýsn, rèttarfýsn og endurgjaldsfýsn í hjörtum manna; 3) með því að þreyngja þjóðunum til að setja sèr sjálfum lög og endurgjalda eptir þeim; 4) með daglegri reynslu; þess vegna verður sá reyndi maður hyggnari en sá óreyndi, og menn geta smíðað sèr höfuðreglur af reynslunni.

[31] (í 114.) 1. Jóh. 4, 10.

[32] (í 115.) 1. Jóh. 4, 10. [33] (sst.) Róm. 3, 25. [34] (sst.) Jóh. 3, 16.

[35] (í 116.) Róm. 5, 8. Krog Meyer, § 127. Fogtmann, § 118. [36] (sst.) Hebr. 9, 14. [37] (sst.) 2. Kor. 5, 20.; Róm. 8, 15.

[38] (í 117.) 1. Jóh. 5, 3. [39] (sst.) 1. Jóh. 3, 6. [40] (sst.) Lúk. 11, 13; Jak. 5, 16. [41] (sst.) Eff. 3, 12.

[42] (í 118.) Jóh. 15, 13. [43] (sst.) Jóh. 14, 6.

[44] (í 119.) Á hörmúngalandi syndarinnar, sem er gagnstætt hæðum dýrðarinnar.

[45] (í 120.) Esaj. 59, 2.

[46] (í 122.) Fil. 4, 13. [47] (sst.) 1. Jóh. 5, 4.; Jóh. 16, 33. [48] (sst.) Róm. 8, 14.—39.

[49] (í 126.) Sálm. 103, 14; 1. Jóh. 2, 1.

[50] (í 128.) Frá þrældómi syndarinnar til frelsis guðs barna, Jóh. 8, 34., 36.; Róm. 6, 16.; 8, 21.

[51] (í 128.) Faðir vor, Matt. 6, 9.; Lúk. 11, 2.

[52] (í 130.) Hebr. 10, 26.—30.

[53] (í 133.) Tít. 2, 11.—14. [54] (sst.) Hebr. 12, 5. 6. Aginn inniheldur ekki einúngis hirtingarnar, heldur og einnig fyrirgefníngarnar og alla stjórn yfir barninu.

[55] (í 134.) Orðskv. 13, 24.

[56] (í 135.) á Golgata.

[57] (í 137.) Post. g. b. 17, 25.

[58] (í 138.) Matt. 20, 1.—16.; Lúk. 17, 10.; Eff. 5, 1.; Matt. 5, 45., 48. Vèr erum guðs börn en ekki vinnuhjú hans; vinnan er ekki höfuðatriðið, heldur sá vinnandi sjálfur.

[59] (í 139.) Mark. 2, 27. Martensens Moral, § 46, 2.

[60] (í 145.) Filip. 3, 12.; 2. Pèt. 3, 18.; Hebr. 12, 1., 2. [61] (sst.) Job. 4, 18.

[62] (í 146.) Eff. 3, 11.; Róm. 11, 32.; 2. Tím. 1, 9.

[63] (í 147.) Vizka guðs slær eingin vindhögg.

[64] (í 154.) Holdið er ekki spilt, heldur veikt, Matt. 26, 41. [65] (sst.) náttúran heimtar í blindni, eða gætir ekki ætíð vits. Konan sá, að trèð var gott að eta af, 1. Mós. 3, 6. [66] (sst.) og sjá, það var alt harðla gott, 1. Mós. 1, 13. Þó eru dýrin sköpuð með vígtönnum og klóm, líklega til þess, að vekja lífinu andvara, (sbr. 209. er.) Þau eru útbúin bæði með vopnum og verjum. Var það ekki eins verðugt guði að skapa refinn sem sauðinn, hrafninn sem dúfuna, tígrisdýrið sem ljónið, hýænuna sem fílinn? Svo er dýranna náttúra margvísleg, að dæmisögu-skáldin geta hvervetna fundið dýr, sem hæfilegt sè til að sýna sèrhvert mannlegt sinnislag og lunderni. Höggormurinn var slægari, en öll önnur kvikindi á jörðunni, sem guð hafði gjört, 1. Mós. 3, 1. Jafnvel er ósamlyndi milli sömu tegundar dýra. Hvað er þá á móti því að hugsa, að guð hafi skapað og skapi náttúru mannsins margbreytta og stundum óþjálga? sbr. Róm. 8, 19.—22. Þar stendur: „því að eptirlaungun skepnunnar bíður eptir opinberun guðs barna; því að skepnan er undirorpin hègómanum, ekki vilju·, heldur fyrir hans sakir, sem hana hefir undirlagt; í von um að og svo skepnan sjálf muni fríuð verða frá vesölum þrældómi til dýrðarlegs frelsis guðs barna; því vèr vitum, að öll skepnan til samans stynur og ber fæðíngarharmkvæli alt til þessa“.

[67] (í 155.) Somnambulismus. Kraptanna stríð miðar einmitt til að vekja lífið.

[68] (í 160.) Esaj. 55, 8., 9.; Matt. 13, 29.

[69] (í 163.) Leibniz í hans Theodiceu, Schleiermach.

[70] (í 164.) Eins og oss frá eilífð vantaði þessa einskorðuðu tilveru, sem vèr nú höfum (því tilveru í efni eða frumefnum heimsins getum vèr leingi hafa haft, þar menn hafa mörg merki til, að heimurinn sè fjarskalega gamall, meir en 15,000 ára gamall, sjá Úrsíns stjörnufræði, 205. bls., og eptir ljóshraðanum og tímaleingdinni, sem það þarf að hafa, til að komast frá vetrarbrautinni til augna vorra, sem ekki er minni tími en 500,000 ár; sjá Eðlisfr. 330. bls.). Eins og oss, segi eg, frá eilífð vantaði það tilveruform, að vera menn, þá vantaði oss einnig frá eilífð vizkuna, sem er hugarins sjón. En vöntun vizkunnar er heimskan (svo kalla jeg skynjunarleysið), þess vegna er heimskan vor frá eilífð. Þessi heimska frá eilífð er sama, sem upprunasyndin í Ágsborgartrúarjátníngunni, II. grein, hvar hún er einúngis talin frá Adams falli, af því hún kom þá fyrst í ljós,

sjá 78. skýríngu við 184. er. Eða var það ekki heimska, að Eva gaf sig nokkurn hlut að höggormsins tælíngu? og nær ætli sú heimska hafi fyrst byrjað? Það mun ekki vera auðvelt að komast fram fyrir endann á henni. Hún hefir orðið að liggja í öllum undangángandi frumefnum heimsins, að svo miklu leyti sem aðdragandar hafa legið að mannkyninu. Hún verður að vera eldri en alt þetta, því ekki hefir hún Eva verið vitrari, þegar hún var öldúngis ekkert, heldur hefir á undan henni geingið eilíft skynjunarleysi í hennar rúmi.

[71] (í 165.) Partus seqvitur ventrem. Af heimskunni koma heimskupörin, af upprunasyndinni gjöranlegu syndirnar. Heimskan er hugarins myrkur. Sá, sem geingur í myrkrinu, veit ekki, hvert hann geingur, Jóh. 12, 35., samber Bretschneider í Σκοτια og Σκότος, og enn framar athuga myrkranna verk, myrkrahöfðíngja og myrkravald.

[72] (í 168.) Samber yfirlitið yfir lífsglæðíngar-meðölin, þar sem talað er um, hvernig hið illa er innifalið í vöntun gæða, og um tegundir hins siðferðislega illa. (16. skýríng).

[73] (í 173.) 1. Mós. 3, 6. [74] (sst.) Matt. 4, 10. Clausens Hovedl. 246. bls.

[75] (í 175.) 1. Mós. 2, 9. með því að setja skilníngstrèð í aldingarðinn. En það er auðsèð á þeirri frásögu allri að hún er rósamál (Symbolik, Martensen, § 79.) yfir þá almennu freistíngu og synd, fult svo vel, eða betur en um einstakan tilburð, þó auðvitað sè, að einhver synd hafi verið hin fyrsta. Talandi höggormur, lífsinstrè og skilníngstrè eiga ekki heima í náttúrusögu vorrar jarðar. En alt þetta verður þýðíngarfult (symboliskt), þegar það er skoðað sem skáldmálverk. Það stendur í frásögunni til að minnast á syndina, sem er svo merkileg í lýsíngu og sögu mannsins, og til að benda til þess, að syndin byrjaði strax með manninum, og sè kominn í heiminn með manninum. Skilníngstrèð þýðir skilnínginn eða vizkuna, og hefir tvöfalda brúkun, farsæla og ófarsæla. Þá farsælu kendi oss og sýndi sá síðari Adam, með því að sigra freistínguna með vizku og krapti, en hina ófarsælu valdi hinn fyrri Adam, með því að láta sigrast af freistíngunni og reyna síðan öll þau ókjör, sem syndinni fylgja. Höggormurinn er sú slæga girnd, forboðni ávöxturinn heimsins tælandi glis og lífsins trèð hið sælufulla líf í guði.

[76] (í 178.) Matt. 5, 6.

[77] (í 183.) Sá, sem syndga mun, er verri en sá, sem hefir syndgað. Sjá dæmi Pèturs.

[78] (í 184.)Náttúruspillíng skyndileg og almenn hefir aungvan stað, heldur uppruna synd og jafnvel erfðasynd; því eptir trúarjátníngunni í fræðunum játum vèr, að guð hafi skapað oss, gefið oss alla limi, þar með skyn og skilníngarvit, og að hann öllu þessu enn nú við makt haldi. Í frummálinu er það: rationem & omnes sensus mihi dederit, & adhuc sustentet. Skynsemin (ratio) verður því að vera óbrjáluð, og án hennar getur ekkert og ekki sjálft guðs orð hjálpað oss. Framvegis stendur í Ágsborgartrúarj. XIX.: „Um orsök syndarinnar kenna þeir (söfnuðir vorir), að þó að guð skapi náttúruna og viðhaldi henni, þá sè orsök syndarinnar vilji hinna vondu, það er djöfulsins og hinna óguðlegu, sem án guðs aðstoðar snýr sèr frá guði", o. s. frv. Hèr í sýnist mèr einúngis talað um siðferðisspillíngu, en einga náttúruspillíngu, og er náttúruspillíngunni neitað, með því að segja, að guð viðhaldi náttúrunni. Að upprunasyndin sè ekki náttúruspillíng heldur upprunaheimskan frá eilífð, sem talað er um hèr að framan í 164. gr. og skýríngunni þar yfir (70.), sýnir Ágsborgartrúarj. II. með þessum orðum: „Einnig kenna þeir (söfnuðir vorir), að allir menn frá falli Adams, sem eptir náttúrunni æxlast, fæðist með synd, það er, án ótta guðs, án trausts til guðs og með girnd, og að þessi veiki eða upprunans galli sè sannarleg synd, er fordæmi og baki þeim eilífan dauða, sem ekki endurfæðast fyrir skírn og heilagan anda. Þeir álasa Pelagíusfylgjendum og öðrum, sem segja, að upprunagallinn sè ekki synd, og sem til að gjöra lítið úr verðskuldan og velgjörníngum Krists, standa fast á því, að maðurinn af eigin kröptum skynseminnar geti rèttlæzt fyrir guði". Þetta eru trúarreglubókarinnar orð, eptir Lindbergs latínsku útgáfu, 1830. Af þessu er auðsætt, að upprunasyndin er innifalin í vöntun vissra gæða: guðsótta, guðstrausts, og rèttrar stjórnar eða háttalags á girndinni (163.); því girnast má það, sem rètt er. En vegna upprunaheimskunnar hefir æskan ekki kunnáttu nè vilja til að setja girndina í rètt lag. Að upprunaheimskan sè erfðasynd, segir 164. gr., þar hún kallast óðal frá eilífð, og að af henni komi gjöranlegu syndirnar, stendur í 165. gr., eða að hennar sanna dóttir sè syndin. Hèr er þá vöntun andlega lífsins, sem byggjast skal ofan á hið náttúrlega, 1. Kor. 15, 45. — 47. Sá náttúrlegi maðurinn átti að koma fyrst, og síðan sá andlegi, síðan segir postulinn með fullum orðum: „Eins

og sá jarðneski (náttúrlegi) Adam var, svo eru og hinir jarðnesku, og eins og hinn himneski er, svo eru og hinir himnesku". Hèr veit postulinn af aungri náttúruspillíngu, heldur gjörir þann af jörðunni komna Adam jafnan öðrum jarðneskum mönnum. Með sama hætti má segja, að sèrhver ófullgjörður smíðisgripur hafi sinn upprunagalla, upprunaveiki, upprunasýki og upprunasynd, því synd (ἁμαρτια) er orð dregið af því, að fara á mis við tilgánginn. Fyrir þenna upprunans galla er smíðisgripurinn ónýtur, meðan svo stendur, og getur ekki geðjazt eigandanum, fyrr en hann fullgjörir hann. Lítið mundi verða úr nýfæddu barni, (eilífur dauði, 240. er.) ef guð skipti sèr ekki framar af að fullkomna það með endurfæðíngu af heilögum anda, annaðhvort þessa heims eða annars. það mundu menn líka kalla veiki, ef úngbarninu færi aldrei fram í neinu, hvorki líkamlegu nè andlegu. En hver er það, sem lætur barnið dafna, nema guð, sem alt af verkar í allri náttúrunni? Ekki geingur náttúran eins og vindmylna sjálfkrafa eða án guðs, líkt sem hann væri aðgjörðalaus áhorfandi, sem aldrei skyldi gjöra neitt, nema þann eina undarlega sprett, að skapa heiminn einu sinni, en vera iðjulaus bæði fyrr og síðar. Kristur segir: „Faðir minn erviðar enn nú", Jóh. 5, 17., sbr. 321. er. og skýrínguna þar yfir. Fyrir þá skuld elskar guð einúngis manninn, að undir eins og hann sèr hann í hans upprunaveiki, þá sèr hann hann undir eins í hans eilífu fullkomnun, sem sitt eigið síblómstrandi dásemdarverk.

79 (í 184.) Matt. 18, 3., 10. Einglar úngbarnanna hafa aðgáng til guðs hásætis (guðs kraptar útsendir til að leiða þau til alfullkomnunarinnar).

80 (í 189.) Vizkan er ætluð til að lærast, en ekki til að skapast í manni heil, eða í einu.

81 (í 193.) Matt. 5, 6.

82 (í 194.) 1. Kor. 13, 9. — 12.

83 (í 197.) þetta er mannkynsins alfaravegur, og er umtalaður í 3 næstu erindum á undan; en hèr eru örnefnin samantekin.

84 (í 201.) 1. Tím. 6, 16.

85 (í 203.) Orðskv. 22, 15.

86 (í 215. og 216.) Ef vèr ekki gætum kent oss sjálfum um hið illa, sem kvelur oss, heldur bústað vorum, heiminum, þá mundum vèr kenna guði um það, þar hann skapaði heiminn. Yggdrasils askur í Eddu er heimurinn, samlíktur við trè.

[87] (í 220.) Jóh. 3, 16.

[88] (í 228.) Vizkufjall er hèr vizkan sjálf (Σοφια) samlíkt við fjall. Rætur þess eru það af vizkunni, sem kannað verður í þessu lífi.

[89] (í 229.) Job. 28, 28.: „Drottins ótti er vísdómur, og að víkja frá hinu illa, það eru hyggindi". [90] (sst.) Orðskv. 8, 7. — 36. er vizkan sjálf látin tala, og er óskandi, að menn vildu lesa það sem flestir.

[91] (í 235.) Lúk. 12, 47.; Matt. 7, 21. — 23.

[92] (í 236.) Róm. 2, 6. — 12.; Matt. 25, 31. — 46.; 1. Kor. 15, 39. — 42.; Matt. 11, 22. — 24.; Lúk. 12, 47.; 2. Kor. 9, 6.

[93] (í 239.) Jóh. 3, 20. Orðið eldur hefir margar merkíngar í ritníngunni; en einkum þýðir það kröptugan eða áhrifamikinn hlut. Jesús skýrir með heilögum anda og eldi, Matt. 3, 11.; Lúk. 3, 16. Guðs orði er samlíkt við eld, Jer. 5, 14. Elías sem eldur, og hans orð loguðu sem blys, Sír. 48, 1. Páll postuli samlíkir tíðinni og reynslunni við eld, 1. Kor. 3, 12. — 15., og er það sama, sem Gamalíel sagði, Post. g.b. 5, 34. — 39. Messías sem eldur, Mal. 3, 23. Í Mark. 9, 49., 50. þýðir saltið vizku í 50. versi, og þá skilst af 49. versi, að maðurinn skuli vitkast með eldi. Sjá Bretschneider í ἁλιζω og eldmerkíngarnar í πυρ. [94] (sst.) Esaj. 26, 16. Jafnvel heiðíngjar hafa hitt á, að annars heims hegníngar gefa bæði vizku og góðan vilja. Virg. Æneid. 6, 620. [95] (sst.) Lúk. 16, 27. — 30.

[96] (í 241.) Eff. 2, 1., 5.; Kól. 2, 13.

[97] (í 242.) Esaj. 26, 16. [98] (sst.) Lúk. 16, 27. — 30.

[99] (í 243.) Matt. 25, 21. — 23.; Lúk. 19, 17.

[100] (í 245.) Sálm. 136. allur; Esaj. 57, 16.; Sálm. 103, 9.; Mik. 7, 18.

[1] (í 246.) Matt. 6, 11. Guðs vilji verður á himnum.

[2] (í 247.) 1. Jóh. 4, 8. [3] (sst.) Hebr. 12, 4. — 11.; Sálm. 145, 14.

[4] (í 250.) Til þess að mótmæla ekki ritníngarinnar bókstaf, en geta þó viðkomið hugleiðíngunni um þann eilífa kærleika og rèttlæti, þá segir höfundurinn þetta og fleira eptirfylgjandi. Það hlýtur að vera samboðið kristindómsins anda, eins og einglum guðs, Lúk. 15, 7., 10., að girnast allra manna fullkomnun, er sjálfur guð vill, 1. Tím. 2, 4.; því kristnir eru skyldugir að elska alla menn og biðja fyrir öllum, 1. Tím. 2, 1.; einkum þeirra eilífu velferð og guðs ríkis vegsemd, Matt. 6, 10. Ekki einúngis að biðja, heldur og að vona og trúa bænheyrslu er

kristileg skylda, því annars væri bænin eins og sjávarbylgja af vindinum æst. Jak. 1, 6. Þegar því Njóla neitar hinni algjörlegu útskúfun, þá er það óaðfinnanlegt, því það er trúarinnar laungun, hennar skylduga laungun, sem þar talar og á að tala. Einginn maður skyldi heldur hugsa, það sè á móti trúarreglubókunum (Symbolisku bókunum); því Njóla neitar öldúngis ekki hinni eilífu hegníngu, og meira stendur ekki í þeim. Sú eilífa hegníng getur fullvel hugsazt, þó syndarinn næði alfullkomnuninni. Viðkvæmni samvizkunnar, og kann ske fleiri hegnandi tilfinnínga, er eiginlegleiki, sem einmitt á heima hjá alfullkomnuninni, þá synd er á undan geingin. Viðkvæmni samvizkunnar, þessi heilagleikans eldur, hættir aldrei að eilífu að fordæma eða brenna þau vondu verk, sem maðurinn hefir hèr í lífi gjört, 1. Kor. 3, 15., og svo getur eins verið með aðrar hegnandi tilfinníngar, er tildæmast á dómsdegi. Þetta er sá eilífi eldur, Matt. 25, 41. Þannig víkur Njóla ekki minsta grand frá ritníngunni og trúarreglubókunum, þó hún neiti eilífu útskúfuninni, sem hvergi er nefnd í þeim.

[5] (í 254.) τελος tilgángur, þar af Teleologia tilgángsfræði. [6] (sst.) Hegníng í fjórða lið, miskun í þúsund liðu. Sálm. 136. hefur þetta viðlag: því hans miskunsemi varir eilíflega. 2. Pèt. 3, 9.; 1. Tím. 2, 4.; Esek. 18, 23., 32.; Esek. 33, 11.; 1. Tess. 5, 9.; Sálm. 145, 9., 10.; Mik. 7, 18.; Sálm. 103, 9.

[7] (í 255.) þar hann sèr alt fyrir fram, þegar hann skapar hana.

[8] (í 257.) Hið illa er upp á sama máta fram komið sem nóttin. Nóttin er vöntun sólar ljóssins, hið illa er vöntun andlega ljóssins.

[9] (í 258.) Skeiðvöll.

[10] (í 260.) Himininn mundi glata sinni fegurð, ef hann skyldi fjölga þeim eilíflega ófarsælu.

[11] (á 24. bls.) Róm. 11. 33.

[12] (í 263.) Allir eru vondir frá upphafi nema Kristur; og guð á frjálst að synja nokkrum af þeim sinnar betrandi náðar um stund, og láta þá á meðan vera öðrum til viðvörunar. Heilagur andi kallar aungvan, fyrr en hans tími er kominn. Hèr af kemur útvalníng og eptirskilníng bæði þjóða og einstaklínga.

[13] (í 267.) Effes. 1, 4., 5. [14] (sst.) Fil. 2, 13.; 2. Kor. 3, 5.

[15] (í 269.) Þessir kallast útvaldir, það er til náðarinnar (Martensens Dogm., § 221.). [16] (sst.) Þessir kallast eptirskildir (Schleiermacher). Samber

Matt. 24, 40., 41.; Lúk. 17, 34. — 36. Þannig hljóðar spádómur Krists um útbreiðslu guðs ríkis: „Tveir munu þá á akri vera, sá eini mun meðtekinn verða, hinn eptirskilinn. Tvær konur munu þá mala í kvernhúsi, önnur þeirra mun verða meðtekin, hin eptirskilin. Á þeirri nótt munu tveir liggja á einni sæng, mun einn meðtekinn, hinn eptirskilinn“. Hèr af kemur aðgreiníngin: útvaldir (af náðinni) og eptirskildir (af náðinni), Bretschneider, παραλαμβανω og ἀφίημι. Einnig segir Jesús: „Margir eru kallaðir, en fáir útvaldir, Matt. 20, 16.; 22, 14. og víðar (sbr. 284. erindi.). [17] (sst.) 2. Tess. 2, 13.; 1. Pèt. 1, 2.

[18] (í 270.) Róm. 12, 3. mælir trúarinnar. 1. Kor. 7, 7.; 12, 7.; Lúk. 8, 5.—8.

[19] (í 271.) Róm. 9, 21. [20] (sst.) 2. Tím. 2, 20., 21.

[21] (í 274.) αποκαταστασις παντων, endursköpun alls. Post. g.b. 3, 21.: „Þann yður ætlaða Jesúm Krist, hver eð á himninum að halda, alt til þess tíma að alt endurskapast“. 1. Kor. 15, 25.—28. stendur: „Þá mun hann afmá allan höfðíngskap, herrastèttir og vald, honum byrjar að ríkja, þar til hann leggur alla sína óvini undir sínar fætur. En sá síðasti óvinur, sem afmáður verður, er dauðinn“; og í 28. versi: „Þá mun guð verða alt í öllum“. Um Apokatastasis (svo heitir meðal guðfræðínganna þessi meiníng um endursköpun alls) má lesa Martensens Dogmatik, § 283—287. Prof. Dr. Kern, om den kristelige Prædestinationslære, 1840. Hún er snúin á dönsku í Tidsskrift for udenlandsk Litteratur, ár 1840. Mynsters hugleiðíngar snúnar á íslenzku, 548. bls., Fogtmanns Lærebog, § 155, Anm.

[22] (í 276.) Þörfin krefur það, reynslan sýnir það og ritníngin kennir það.

[23] (í 279.) Post. g.b. 4, 28.

[24] (í 280.) Kól. 3, 25.; Róm. 2, 11.; Post. g.b. 10, 34.

[25] (í 281.) 1. Kor. 9, 9. Það er: sá, sem erviðar, njóti góðs af sínu erviði; sá, sem þolir hegníngu fyrir aðra, njóti líka góðs af henni sjálfur.

[26] (í 282.) Sálm. 145, 9.

[27] (í 283.) 1. Jóh. 5, 8.; Matt. 7, 11.

[28] (í 284.) Samanber 269. erindi.

[29] (í 286.) Meiníngunа um þá eilífu útskúfun.

[30] (á 25. bls.) Róm. 9, 16.

[31] (í 289.) „Dona sua coronat deus, non merita tua“, segir Ágústínus; það er: guð krýnir gáfur sínar, en ei verðskuldanir þínar.

[32] (í 293.) Jak. 1, 17.; 2. Kor. 3, 5.; Jóh. 6, 63.; Sálm. 51, 12. Hèr má og skoða Martensens Mor., § 48. [33] (sst.) Samber 163. erindi; það er setníng eptir Leibniz í Theodiceu.

[34] (í 294.) Filipp. 2, 13.

[35] (í 295.) 2. Kor. 3, 5.

[36] (í 296.) 1. Kor. 4, 7.

[37] (í 297.) Lesa má Martensens Moral., § 19. 1.

[38] (í 299.) Lúk. 8, 4.—15.; Róm. 11, 8.

[39] (á 26. bls.) Róm. 11, 32.

[40] (í 302.) Eff. 5, 29.

[41] (í 304.) Mart. Mor., § 61.

[42] (í 305.) Róm. 9, 16., 18.; 11, 8. [43] (sst.) Róm. 11, 32., 33. [44] (sst.) Róm. 11, 33.; Post. g.b. 1, 7.

[45] (í 308.) 1. Kor. 13, 9., 10. Vorir vitsmunir eru hálfverk, uns hálfverkið endar.

[46] (í 309.) Róm. 9, 17.

[47] (í 310.) Þetta ætla eg til að útskýri forherðíngu Faraós.

[48] (í 313.) Matt. 11, 23.

[49] (í 314.) 1. Mós. 19, 24. [50] (sst.) Júd. 7. v.

[51] (í 315.) Matt. 25, 15. [52] (sst.) Lúk. 12, 48.

[53] (í 316.) Róm. 8, 3.: það sem lögmálinu var ómögulegt.

[54] (í 317.) Filipp. 1, 6.; 1. Pèt. 5, 10.

[55] (í 318.) Þá þrjá aðalkrapta sálarinnar: þekkíng, tilfinníng og vilja, samber sálarfræðina. [56] (sst.) Um frjálsræðið (liberum arbitrium) stendur svo í Ágsborgartrúarj. XVIII.: „Um frjálsræðið kenna þeir, að vilji mannsins hafi nokkurt frelsi til að framkvæma þjóðlegt rèttlæti og að útvelja þá hluti, sem skynsemin getur um dæmt. En ekki hefir hann krapt til án heilags anda að framkvæma rèttlæti fyrir guði, eða hið andlega rèttlæti, því holdlegur maður (ψυχικος 1. Kor. 2, 14.) skynjar ekki, hvað guðs anda er. En slíkt rèttlæti upp kemur fyrst í hjartanu, þegar heilagur andi kviknar í því fyrir orðið“. Þetta segir Ágústínus nær með sömu orðum í 3. bók af Hypognostica. Vèr játum, að allir menn

hafi frjálsræði bygt á skynseminnar dómi, en sem þó ekki án guðs getur byrjað eða framkvæmt það, sem guðs er, heldur einúngis verk þessa lífs, svo vel góð, sem vond. Með góðum meina eg þau, sem fram koma af því góða í náttúrunni, svo sem að vilja rækta akur sinn, eta og drekka, vilja hafa vin, hafa klæðnað, vilja byggja sèr hús, fá sèr konu, fóðra peníng, læra ýmsar góðar listir, vilja sèrhvað gott til þessa lífs þarfa. Hvað altsaman þó ekki getur staðizt án guðs stjórnar, heldur er af honum bæði framhaldið og uppbyrjað. En með vondum meina eg, svo sem að vilja dýrka skurðgoð, vilja deyða mann", o. s. frv. „Þeir lasta Pelagíusmenn og aðra, sem kenna, að vèr getum af eigin náttúrunnar kröptum án heilags anda elskað guð yfir alla hluti fram, einnig haldið boðorð guðs, hvað eðli verkanna snertir, (qvoad substantiam actuum). Því þó að náttúran geti nokkurn veginn gjört útvortis verk, því hún getur haldið höndunum frá stuldi og manndrápi, þá getur hún ekki vakið innvortis hræríngar, svo sem guðs ótta, traust til guðs, kærleika, þolinmæði", o. s, frv. Þetta segir trúarjátníngin. Margt er skrifað um frjálsræðið, en ekkert upplýsir það eins vel fyrir mèr, sem það er Jesús segir, Jóh. 8, 32.: „Þèr munuð þekkja sannleikann, og sannleikurinn mun gjöra yður frjálsa", þ. e.: frjálsa frá yfirdrottnun syndarinnar, eða frá því að vera syndarinnar þræll, (v. 34.). Það er eptirtektavert, að Kristur kallar þann mann ekki frjálsan, sem vantar þekkíngu sannleikans (hèr optnefnda vöntun vizkunnar, sem er vöntun heilags anda, því hann er andi vizkunnar, vísdómsandinn (Eff. 1, 17.), og kemur það saman við ofanskrifaða trúargrein). Það er auðvitað, að sá er aldrei frjáls eða frjálsráður, sem vantar sannleikann. Eg vil hèr færa dæmi í líkamlegum efnum. Hvað kemur til þess, að siglíngamenn komast ekki eins opt í hafvillur nú, sem á fyrri öldum? Áður mátti það heita glæfraferð að sigla frá Norvegi til Íslands eða Færeya, en nú sigla menn um allan jarðarhnöttinn, hvar sem þeir vilja, þar sem ekki banna ísar, lönd eða straumar, og nú er mjög lítið talað um hafvillur. Hvað er það þá, sem gjörir siglíngamennina svo miklu frjálsari nú, en áður? Mun það ekki vera sannleikurinn? sannleikurinn, sem liggur ofan á kompásnum, ofan á sjókortunum, og yfir höfuð í siglíngafræðinni allri? Annað dæmi vil eg líka framfæra: Hvað kemur til þess, þegar tveir mjög ójafnir tefla skák, að þeim, sem betur kann, geingur betur, en þeim, sem miður kann? Mun það ekki vera af því, að sannleikurinn gjörir hann frjálsan? Báðir hafa þó

í byrjun átt jafnfrjálst að leika hverri töflunni, sem þeir vildu. Hèr stríða tvö frjálsræði hvort á móti öðru, en sá er munurinn, að frjálsræði þess, sem miður kann, verður honum að aungvu liði, einúngis fyrir það hann vantar sannleikann, sannleikann, sem kennir hinum að sjá hina góðu leikina út á borði. Nú vil eg heimfæra þetta upp á andlegu efnin. Menn vilja segja mèr: „Margur gjörir ver, en hann veit, og ekki sè hinum vondu varnað vits". En eg svara: þetta er skæðasta villa, sprottin af þekkíngarleysi á hinu andlega eðli mannsins, og á eðli kristindómsins, einnig á sælu þeirri, er kristindómurinn í sèr geymir. það er hið allra minsta af vizkunni, að vita, hvað maður á að gjöra og láta ógjört; það vita börnin, sem búin eru að læra boðorðin, hvor skyldan sè í flestum tilfellum, og má það varla vizka heita, að kunna þessa, má ske ógeðfeldu, boðorðaþulu. En hitt er meiri vizka, að komast upp á það, að gjöra hugarfar sitt guðlegt yfir höfuð; þá kemur fyrst upphafið vizkunnar eða ótti drottins. Mundi það ekki vera meiri vizka, að rannsaka iðuglega sjálfan sig, að helga hugarfar sitt með bæninni, að þekkja af eigin reynslu bænarinnar helgandi krapt, að reyna fögnuð eða sælu trúarinnar í öllum lífsins kjörum, að komast í þá reynslu að geta sagt af fullu hjarta: „þegar eg hefi þig, drottinn, þá hirði eg hvorki um himin nè jörð"? Mun ekki þann, sem lifir fyrir utan alt þetta, vanta sannleikann eða vizkuna? Sá sem fyrir rannsóknarleysi þekkir ekki sjálfan sig, mun þann ekki vanta sannleikann? Sá sem ályktar, að bænin sè ónýt, af því hún getur ekki umbreytt guðs ákvarðaða ráði, mun þann ekki vanta sannleikann? Sá sem heldur, að það sè ekki til neins að hugsa til guðs, mun þann ekki vanta sannleikann? Af þessu öllu sèst, að frjálsræði mannsins er ekkert án vizkunnar yfir höfuð, og ekkert án heilags anda í andlegum efnum, þar hann er andi vizkunnar.

[57] (í 318.) Post.g.b. 17, 25. 28.

[58] (319.) Post.g.b. 17, 28.; eins og vatnið fyllir báruna, svo fylla guðs öflin oss.

[59] (í 320.) 1. Kor. 15, 10.; 2. Kor. 3, 5. [60] (sst.) 1. Jóh. 4, 16. þetta má líka sanna af foreldra-ástinni og sjálfselskunni, sem eru bersýnilegar guðs raustir innan í oss, samber 90. — 97. er. Eingin hugsun getur gjörzt fyrir utan guðs afl, jafnvel brjáluð hugsun verður ekki hugsuð, nema fyrir nokkurt guðs afl. Hin rètta og vitra hugsun hefir í sèr mikið guðs afl; og hin guðlega hugsun verður að tendrast af heilögum anda. Samber framanskrifaða trúargrein. Frjálsræði í

andlegum efnum er ekki til fyrir utan heilagan anda; samber sálminn í Grallaranum: „Kom, guð, helgi andi hèr", og sèr í lagi sálmsteflð:

„Sè oss þitt fulltíngi frá,
finnst ekkert gott mönnum hjá,
ei má nokkuð saklaust fá.

þetta stef er tekið fram í Ágsborgartrúarjátníngunni XX. seinast.

[61] (í 320.) Filipp. 2, 13.

[62] (í 321.) Samanber það, sem sagt er um myndun alls líkamlegs efnis í 409. — 417. gr., eða um almagnselfuna, hvar af sèst, að guð erviðar hvert augnablik í allri náttúrunni, eins og Kristur segir, Jóh. 5, 17.: „Faðir minn erviðar enn nú". Guð hefir því ekki smíðað náttúruna einu sinni til að láta hana síðan gánga sjálfkrafa, heldur endurnýar hana hvert augnablik; þar mótspyrnan lítur út, sem sífelt rennsli, eða guðlegir miðflótta-stormar eða miðflótta-afl. þetta bendir líka til að náttúran hafi aldrei spilzt, heldur að hún sè eins og nýsköpuð hvert augnablik. Fúi, rotnun, brennsla og aðrar efnanna ummyndanir eru ekki náttúruspillíngar, heldur náttúrulög. Samber enn framar skýrínguna við 436. gr.

[63] (í 323.) Jer. 23, 24. [64] (sst.) Jak. 1, 13.

[65] (í 324.) Sálm. 51, 12. [66] (sst.) 2. Kor. 4, 6.; Effes. 5, 9.

[67] (í 328.) Menn ímynda sèr sumir, að annars heims líf verði óumbreytanlegt; en sú meiníng er á aungvu bygð, því lífsins eðli er að hreifa sig og fullkomna. Guð er einsamall hèr frá undantekinn, sem er alfullkominn.

[68] (í 329.) Matt. 19, 17.; Job. 4, 18.; 15, 15.; 25, 4. — 6.

[69] (í 333.) Róm. 8, 28.

[70] (í 337.) 1. Kor. 15, 10.

[71] (í 338.) Ásökun sú, sem er í samvizkunni, miðar einúngis til betrunar, en ekki til útskúfunar. Hún er lík því, að faðir áviti barn sitt, en ekki því, þegar saksóknari ákærir mótpart sinn. Maður ásakar sjálfan sig, af því honum er annt um sjálfan sig, og er það guðs ráðstöfun. [72] (sst.) 1. Kor. 15, 10. [73] (sst.) Hann á frjálst að halda sínum kerum tómum leingur eða skemur, eins og hann vill; sú guðlega hegníng er því eingin hefnd eða ásökun, heldur betrunar-áminníng. Menn eiga að varast að setja guði lög. þó hann sè heilagur, hvílir eingin skylda á honum að útbýta heilagleikanum til skepnanna, fljótar en hann gjörir,

Róm. 9, 20., 21. Því segir postulinn: „Hver ert þú, að vilja hafa svör við guð? skyldi leirkerið segja við þann, sem bjó það til: hví gjörðir þú mig svona? eða hefir ekki leirsmiðurinn vald að gjöra af sama smíðisefni eitt ker til heiðurs en annað til vanheiðurs"? Af þessum orðum postulans er þá auðsætt, að hann veitir launin ekki í neinu þakkarskyni, og hegnínguna ekki í neinu hefndarskyni, heldur hvort fyrir sig í öðrum tilgángi, nefnilega bæði laun og hegníng til uppörvunar. Hann lætur mann, sem illa breytir, ásaka sig sjálfan í samvizkunni; og miðar sú ásökun til betrunar en ekki til útskúfunar. Hún er lík því, að faðir áviti barn sitt, en ekki því, þegar saksóknari ákærir sinn mótpart. Maðurinn ásakar sjálfan sig, af því honum er ant um sjálfan sig, og er það guðs ráðstöfun.

[74] (í 339.) Lúk. 17, 10.

[75] (í 340.) Post. g.b. 17, 25. [76] (sst.) Jóh. 3, 27.; Fogtmann, § 44.; Marheineke, § 325.

[77] (í 341.) 1. Kor. 15, 10.; Ágsborgartr., XX.; Róm. 11, 35.; Krog Meyer, § 41. [78] (sst.) Verðskuldan er ætíð nokkuð skuldbindandi; en ekkert getur skuldbundið guð.

[79] (í 349.) Esek. 33, 11.

[80] (í 350.) Jer. 32, 17.: „Einginn hlutur mistekst fyrir þèr". Lúk. 1, 37.: „Guði er einginn hlutur um megn".

[81] (í 358.) Útvalinn til sköpunarinnar, það er að skilja: útvalinn úr óteljandi eins mögulegum hugmyndum. Mannlíking. Þar kemst því einginn að, sem trufla mundi alheimsáformið eða guðs ákvarðaða ráð.

[82] (í 360.) Sálm. 145, 9.; Esek. 33, 11.; 2. Pèt. 3, 9.

[83] (í 361.) Sálm. 139, 15., 16.

[84] (í 362.) Post. g.b. 15, 18.; Jer. 32, 17.

[85] (í 364.) Fil. 2, 12.

[86] (í 365.) Matt. 7, 11.

[87] (í 366.) Sálm. 111, 10.

[88] (í 368.) 1. Jóh. 4, 18.

[89] (í 371.) Sír. 15, 14., 16., 20. Guð vill fullkomna sitt verk, og spyr ekki verkið, hvort það vilji láta fullkomna sig eða ekki; hann hefir sjálfur gefið oss fullkomnunarfýsnina, og þarf því ekki að spyrja. Vor hèrverutíð er því ekki í

þeim skilníngi reynslutíð, að hún sè nokkurs konar spurníng til vor, hvort fullkomnast viljum, eða ekki. Þar á móti er það í voru valdi, hvort vèr viljum umflýa hegníngu, eða ekki; og þó er það með guðs hjálp.

90 (í 376.) 1. Mós. 3, 1.

91 (í 378.) Matt. 7, 13.; Lúk. 13, 24. 92 (sst.) Effes. 2, 2.; 2. Kor. 11, 14.; 1. Pèt. 5, 8.; Lúk. 22, 31.; Job. 1, 7.

93 (í 381.) 1. Jóh. 5, 4.

94 (í 382.) Lúk. 11, 13.

95 (í 387.) Sálm. 33, 11.

96 (í 389.) Orðskv. 21, 1.

97 (í 390.) Job. 5, 13.

98 (í 391.) Job. 38, 11.

99 (í 392.) Matt. 10, 29.; Sálm. 139, 16.

100 (í 396.) Það er: alt glæðir lífið.

1 (í 397.) 1. Jóh. 4, 16.

2 (í 398.) Signa er að blessa.

3 (í 401.) Mótspyrna eða þensluaflið (Expansio), sjá Eðlisfræðina.

4 (í 409.) Aflgeislar er orð, myndað eins og ljósgeislar, til að sýna, að í stað þess, að ljósgeislar eru ljós, þá sèu aflgeislarnir afl. Þessir stefna í allar áttir út frá púnktinum, eins og geislar.

5 (í 414.) Felli-slög. Haldi maður hendinni neðarlega í fossi, þar sem er dropaskil, finnur maður aðgreind slög; en ofan til í straumnum falla slögin saman í samfelt afl, sem tilfinníngin ekki getur aðgreint í slög, en eru þó slög eigi að síður. Þetta sýnir, að afl er samsett af smáslögum og spyrna af rykkjum.

6 (í 422.) Er þenslan hlýðir. 7 (sst.) Sálm. 33, 9.

8 (í 423.) Sálm. 139, 13.

9 (í 431.) Esaj. 40, 22.: spennir út tíðina og rúmið eins og tjöld.

10 (í 436.) Þegar menn róa á skipi, og einhver nær ekki til með fótunum að spyrna í reyngurnar, þá segir hann: „Eg get ekki róið, því eg hefi aungva viðspyrnu“; tekur hann þá hlunn, eða austurtrog, setur fyrir iljar sèr, og spyrnir í. Auðvitað er, að hèr með er meintur kraptur sá, sem í hlunninum er, til að

spyrna á móti mannsiljinni, því ónýtt værí að spyrna í hlunninn, ef hlunnurinn spyrndi ekki á móti; svo að viðspyrnan er þá mótspyrna. En svo lítið sem menn taka alment eptir þessum krapti, þá er þó hægt að sjá, að hann er það verkfæri eða rèttara sagt átak almættisins, með hverju það skapar alt hið þreifanlega, sýnilega, heyranlega, þefanlega og smakkanlega, hvort sem það er á himni eða jörðu. Því ef vèr hugsum eptir, hvernig fara mundi, ef guð slepti um eitt augnablik þessu eina átaki sínu, þá er auðvitað, að vèr gætum á aungvu þreifað, því áþreifíngin væri þá eins og fálmun út í autt rúm. Ekkert yrði sèð, vegna þess einginn hlutur gæti þá sent frá sèr ljósgeislana í augað. Upp á sama máta kæmist ekkert hljóð til eyrans, ylmurinn hrifi ekki á nasirnar, nè smekkurinn á góminn. Í einu orði: allur sá sýnilegi heimur væri horfinn, og vor líkami með. Af þessu sýnist, sem alt hið þreifanlega sè innifalið í mótspyrnunni heptri eða tempraðri upp á ýmislegan máta af samloðunaraflinu. Til að gjöra sèr skiljanlegt, hvernig mótspyrnan hagar sèr, þá aðgæti maður, t. d. eina handfylli af mold. Kreisti maður hana í lófa sínum, þá spyrnir hún á móti, og það því fastara, sem fastara er kreist. Þessi kraptur geingur út frá moldinni á allar síður, eins og geislar frá sólu, og setur sig á móti þeim krapti, sem lófinn kreistir með, og sækir inn í moldina. Þar mæta því aflgeislar lófans aflgeislum moldarinnar. Sundri maður nú moldar handfyllina, og taki eitt einasta korn, og klípi það milli fíngurgómanna, þá sýnir það alla sömu eiginlegleika og handfyllin áður, að aflgeislar þess spyrna einnig í allar áttir út frá því. Nú er kornið einnig samansett af óteljandi minni pörtum, út af hverjum einnig aflgeislar gánga, og varna því, að korninu verði samanþrýst í óendanlega lítinn púnkt. Nú er spurníng: hvort deilíng þessi eða sundrun geti geingið endalaust, eða ekki, ef mannleg handastjórn aldrei þryti. Geingi hún endalaust, þá gætu að sönnu harðir líkamir komið þar af, en stæltir líkamir gætu ekki framkomið, vegna þess að þá yrði ekkert lát á neinu, nema þar sem brotnaði inn, hvar holur væru, en líkamirnir gætu ekki tekið sig aptur, eða þanið sig út, þegar hætt væri að kreista. Þess vegna má deilíngin ekki gánga endalaust, heldur hlýtur maður að ímynda sèr loksins aðgreinda púnkta, sem sèu án allrar stærðar með svo litlum millibilum, að yfirgángi allan mannlegan rannsóknarkrapt. Frá hverjum þessara púnkta, sem raunar eru ekkert, heldur öldúngis tómir, verða að gánga aflstraumar

í allar áttir eins og geislar, og spyrna á móti aflgeislum hinna púnktanna. Hèr er nú ekkert annað en andlegir kraptar, sem spyrna hver á móti öðrum, og er það almættið sjálft, er spyrnir á móti sjálfu sèr. Nú eins og sólargeislinn er samsettur af ljósögnum, eða öldum, sem streyma hver á eptir annari, svo verður líka aflgeislinn að vera samsettur af rykkjum, er koma hver á fætur öðrum. Eptir því sem þessir rykkir fara lángt út frá sínum útgángs-púnkti, eptir því verða frumagnirnar stærri, og eptir því verður líkaminn stæltari. Þar á móti verður líkaminn því stælíngar-minni, sem aflgeislinn er styttri og rykkirnir fara skemra. En harka og linka hlutanna fer eptir því, hvað þeir eru holóttir, og eptir því, hvernig samloðunaraflið hagar sèr. Því nær sem útgángs-púnktarnir færast hver að öðrum, því stríðari verða aflgeislarnir, af því þeir þèttast þar og sameinast. Ef frumögnin ekki endurnýaðist hvert augnablik, eins og fossinn í ánni eða geislinn frá sólunni, þá væruðu líkamirnir ekki nema eitt augnablik eins og rykkur; maður hlýtur því að álíta krapt frumagnarinnar eins og sírennandi straum. Þessi sírennandi aflstraumur vitnar, að alheimur sè eintómur, gagntær, guðdómlegur kraptur eða vilji, en ekki meiníngarlaust, sjálfstætt og óþjált efni, eins og Plató hèlt. Sjá Fjölnir 1. ár, 103., 106. bls.

11 (í 451.) Rekja í sundur, eða útbreiða guðs dásemdir, svo að guðs lifandi skepnur geti sèð þær greinilega og glaðzt við þær, því annars væru guðs dásemdir í einum hnút eða dróma.

12 (í 453.) Væri ekki rúmið eða alvíddin, þá væru guðs dásemdir allar í einum púnkti.

13 (í 454.) Væri ekki tíðin eða eilífðin, þá skeði alt á einu augnabliki.

14 (í 455.) Þær eru þvert útþandar, hvor við aðra, báðar eins til komnar og undir eins, jafngamlar og jafnstórar.

15 (í 456.) Samber 24. og 25. erindi Njólu.

16 (í 458.) Sálm. 139, 7.

17 (í 464.) Ekki er það höfundarins meiníng, að guð reiðist (sbr. skýrínguna við 107. erindi Njólu), heldur ímyndar hann sèr það sem mögulegt, til að gjöra síðari hugsunina því gleðilegri.

18 (í 465.) Sálm. 8, 4.

19 (í 473.) Matt. 5, 15.

[20] (í 479.) Jóh. 14, 2.

[21] (í 491.) Job. 38, 7.

[22] (í 509.) Lífsins trè er hèr lífið sjálft, skoðað eins og vaxandi trè.

[23] (í 518.) Guðs dýrðar sól, það er: guðs dýrð verður ekki sèn, fyrr [redacted] oss opnast skilníngarvit, sem tekið getur móti einhverjum hennar geisla. Skilníngarvit kallast hèr sèrhver fullkomlegleiki, sem til geislans móttöku útheimtist. Þessir fullkomlegleikar veitast oss ekki allir í einu, heldur smásaman. Í þessu lífi veitast þeir eptir þessari röð:

1) Tilvera, svo sem frumefni; í því ástandi er maðurinn eins og dauður hlutur.

2) Jurtalífið, þannig lifir fóstrið í móðurlífi, vex þar eins og jurt hugsunarlaust.

3) Dýralífið, sem byrjar með fæðíngunni; þá fer maðurinn að gjöra mun þess þæga og óþæga, eins og dýr.

4) Skynseminnar líf; þá fer maður að gjöra mun góðs og ílls; þá fara geislar (guðs dýrðar) fyrst að sjást, eða þekkjast.

5) Andlega lífið; þá fer maðurinn að geta deilt dýrðarinnar sól, eða að sjá, að geislarnir koma frá einni uppsprettu, þekkja guð.

Hèr endar sá tröppugángur, sem vèr höfum af að segja í þessum heimi; en í öðrum heimi mun hann halda á fram um alla endalausa eilífð. Eptir sem þessi tröppustig fjölga, þá fjölga alt af þeir geislar guðs dýrðar, sem maðurinn getur móti tekið. Tröppustig þessi kallast lífsins veldi (Livets Potenser). Úr því lífsins blómgun er komin upp í 4. veldi, þá ekki einúngis uppljómast það nýa veldi, heldur og einnig hin undangángandi. Eins trúum vèr, að gángi til í öðrum heimi, að þá verði alt það bjart, sem nú er dimt. Maður sýnist þannig ekki vera skapaður til hastarlegs algjörlegleika, heldur til eilífrar blómgunar.